1 Fyrſt kienner þetta Euangelium og ſeg-
ur oſſ fyrer Sioner / j eins aums Mans Ept-
erdæme / Huilykt Valld Dioͤfullenn hann hafe
yfer Mañeſkiuñe / Þegar Gud hann vill þad
leyfa / So ſem hier ſtendur / Ad þeſſe aume
Madur hafe ei ad eins vered ſetenn af Dioͤfl-
enum / helldur eirnen þar med / blindur / daufur
og Mallaus / Huar af vier aminter verdum
oft og jdugliga Gud ad akalla og bidia / ad /
hann geyme vor fyrer þeim grima Ovin /
Dioͤflenum.

2 Þar næſt er oſſ þetta til Huggunar /
Sem er / ad vier ſkulū vita / huoͤrt vier ſkulū
leita Skiools og Hialpar / j mote Andſkot-
anum og oͤllu hans Vallde / ſem er hia Lauſ-
nara num Jeſu Chriſto / hann ſem Dioͤfulenn
hefur ſigrad og yfer vuned / ſuipt hann Her-
fange / og þui vtſkipt a medal ſinna Kriſteñ
Manna / ſo ad hann kann þeim ecke Skada
ad gioͤra / ſem a þennann Sigurvegarañ Jeſū
Chriſtum trua og treyſta.

3 Hier verdur kient / huoͤrſu ad Andſkot-
eñ / þa hann er eitt ſinn fra Manneſkiunne vik-
enn / þa hefur hann ecke Huyld nie Ro / fyrr
enn hann kiemur þar aptur / ſem hann var
adur vtrekeñ. Þar fyrer liggur ſtorliga Ma-
gt a / ad Menn vakte ſig fyrer / Holldligu At-
huga leyſe / giefe ecke Rwm Syndenne nie Di-
oͤfulſins Aeggian / ſo ſu ſeirne æfenn verde ecke
verre hinne fyrre / ſo þar adur var eiñ And-

ſkote/ þeir uerda þar ſlö.
4 Huad þeir Ogudligu hallda af Chriſto/
og af Dioflenū / þad ſtendur hier/ Dioſulen
kalla þeir Belzebub/ þad er Flugu kong/ þad
er ad ſkilia/ Ad hañ hafe ecke meira Vald ed
ur Magt / enn ein Fluga / So ſem Malltæke
er / ad ef einn fyrer lijtur annañ / þa kiedſt
hann ecke ackta hann meir enn Myflugu/
Þar þo Herrañ Chriſtur kallar hann vegna
ſyns mykla Vallds / Höfdingia þeſſa Heims/
og S. Paall kallar hann Herra og Gud
Veralldarennar.
5 Vt af Chriſto hallda þeir Ogudligu
Laſtarar/ þad/ ad hann/ vtreke Diofla fyrer
Belzebub / Þad er / med Styrk Dioſulſins/
Huörre Gudlaſtan Chriſtur hann eyder/ med
ſönnum Greinum.
6 Ad ſyduſtu ſeiger hier/ Huör ad ſie ſu
hin ſanna og rietta Farſælld Kriſtinna Man
na/ Sem er/ ad þeir ſieu ſæler/ ſem Guds Ord
heyra/ og þad varduеita/ Þuiad þad er Kra
ptur Guds/ huör ed alla þa Saluhólpna giör
er/ ſem trua/ Rom. 1.

V.

Vt rekur Jeſus Þuka / Af Mal-
lauſre Salu/ Syner med ſönnum Gre-
inum / Sinn Almætt þad vinna / Þui
Fiandenn fær ei hrunded/ Flarædur ſij-
num Aare / Hann telur þa ſijdañ ſæla/
Er ſinna Orda miñaſt.

Bænen

ODrotten̄ Gud Himneskur Fader/ Þu sem þar fyrer hefur læted þinn Elskuligann Son taka Mandom vppa sig/ ad hann skyllde nidur briota Diöfulsins Verk/ og vardueita oss aumar Manneskiur/ Vier þöckum þier fyrer soddan̄ Nadarsamliga Hialp/ og þar næst bidium vier þig / Vertu hia oss j öllum vorum Freistingum / Vardueit þu oss fra Holldligu Athuga leyse / og fyrer þinn Heilaga Anda / geym oss j þijnu Orde/ og j þijnum Otta / so ad vier mættum allt til sijdustu Afeloka / vera verndader og frelsader fra þeim vonda Andskota / og fyrer þinn Son verda eilijfliga Saluholpner/ Amen.

## Midföstu Sun̄udag Pistillen̄
### Galatas IIII. Cap.



Jærer Brædur: Seiged mier/ þier sem vnder Lögmælenu vilied vera / Hafe þier ei heyrt Lögmæled? Þuiad skrifad er/ þad Abraham hafde tuo Sonu/ einn

af Ambaattenne / ∗ enann af Eigin
Konunne. Enn sa sem af Ambaattinne
var / er fæddur epter Holldenu. Enn
hann af Eigenkonunne / er fyrer Fyrer
heited fæddur / Huør Ord ad tø jud eru
j eine Allegoria / Þuiad þetta eru þau
twø Testementa. Eitt af Fiallenu Sy
na / þad er til þrælkunar fæder / huør
ad er Agar. Þuiad Agar heiter j Ara
bia Fialled Syna / sem tekur allt þang
ad til sem nu þennann tijma er Jerusalē /
huør ed er j þrælkan med sijnum Børn
um . Enn hin Jerusalem sem þar er
uppe / hun er Eigenn konann / huør ad
er Moder vor allra. Þuiad skrifad er.
Vertu glød hin Obyria / þu sem ecke
fæder / brioſt fram og kalla þu sem ecke
ert þungud / þuiad hin ein sama hefur
myklu fleire Børn / enn su sem Mann
enn hefur. Enn vier kiærer Brædur erum
Jsaachs Børn epter Fyrerheitenu / Og
lijka sinn j þann tijma / ad sa epter Holld
enu var fæddr / ofsokte þann / huør ed ep
ter Andanum var fæddr / So skiedr þ eir
nen nu. Enn huad seiger Ritningenn? Rek
a burt Ambaattena / og Son hennar /
Þuiad Ambaattarinnar Sonur skal ecke
erfa

erfa mz Syne eigen Konuñar. Þar fyrer kiærer Bræðr/ vier erum ecke Ambattar ñar Syner/ helldur Eigen Konuñar.

## Vtskyring Textans.

S. Paall hann kienner j Pistlenum til Galatas ad Menn verde Riettlater/ þyrer Gude/ þyrer Truna/ enn ecke þyrer Lögmaals sins Verk/ so sem kiendu þeir pals postular og hiner adrer Verk heilögu/og vt mælar S. Paall þennañ Riettlætingar Lærdom/med eirne Historiu vr gamla Testamentinu / huöria hann vtleggur per Allegoriam edur andlega Meining. Seige þier mier/ seiger hann/ Þier sem vilied vera vnder Lögmalenu Þier sem vid leited / ad verda Riettlater og Saluholpner/þyrer Lögmalsins vpp fylling/ Hafe þier ecke heyrt Lögmaled. Hann meinar hier þyrstu Bok Moysis / þuiad su Bok er Partur aþ Moysis Bokum og Lögmale. Þuiad skrifad er/ Pad Abraham hafde tuo Sonu / eiñ af Ambaattiñe/ Sem var Ismael/ Og annann af þeirre sem var frials/ Og þrii/ þesse var Isaach/ Enn sa sem af Ambættenne var / Hañ var fæddur epter Holldenu. Pad er/ Hñ var alent epter almeñeligum og Hollðligum Plagsid/og gietinn an nöckurs gudligs Fyrerheits/ og an nöckrar Jardteiknar. Enn

hann (sem vär) af þeirre frialsu / hann
er fyrer / Fyrerheit fæddur: Þad er / Gu
ds Fyrer heit gieck ædur þyrer vndan hans
Fædingu / huört ed sagde / ad Sara / sem bæde
var Obyria / aþ Natturu og Elle / hun skyll/
de eiga Son / og hann skyllde verda Erþinge
allra Abrahams Audæþa. Huör Ord ad
töluð eru / j eirne Allegoria / Edr annar
ligre Meiningu. Þad er / J þessare Historia /
sk nu merkia eina Allegoriam. Þuiad þt
ta eru tuö Testamenta. Þad er so myked /
Þesser tueir Abrahams Syner / þeir merkia
tueggia Handa Folk / og tuö Testamenta:
Þad eina / er vt giefed / a Fiallenu Syna
Þad er Moyses Lögmæl / Þetta Testamentet
giörer Menn ecke liduga og Frialsa / aþ Fyrer
dæmningunne edur Daudanum / og gieþur
þeim og ecke helldur Frelse / nie Arþleiþd Gu
ds Barna / Helldur er þad eitt Testament.
Þad er til Þrælkunar fæder. Þad er /
Þad giörer soddann Folk / huört ed naudugt
þionar vnder Lögmælsins Þrældome / og heþ
ur þo vt aþ Lögmælenu öngua Von / til Þr/
rar Himnesku Arþleiþdar / so sem þad Þræll/
enn hann heþur öngua Von til Arþsins / med
Syne Eigenkonunnar / Huör ad er Agar /
Þad er / Agar hun merker þad gamla Testa/
mented / huör ed ecke kunne ad þæda þa Sonu
sem vera mætte Erþingiar Audæþa Abra/

hams.

hams. Þuiad Agar er Syna Fiall / j Arabia / og er æfööst vid hana / sem nu er Jerusalem. Þad er / Fialled Syna kall- ast ödru Nafne Agar / þad tekur allt þango ad ad / sem nu er Jerusalem / Þad er / Allt fra Syna / er so sem eiñ Fiallgardur / allt jñ j Gydinga Land / j huöriu ad Jerusalem borg stendur. Huör ad er j Þrældome med sijn um Börnum. Þad er / Huör med synum Borgar og Bæar Mönnum ecke til heyrer Gu ds Börnum / helldur hinum Þrælonum / Med þui ad hun hefur og so hingad til / viliad ve ra riettlaat fyrer Lögmæled. Enn hin Je- rusalem sem þar er vppe. Þad er / Su hin Sannarliga og Andliga kristeliga Kirkia / hu ör ed / þo hun sie hier a Jördunne enn nu / þa lifer hun þo ecke epter hætte þessa Heims / helldur hefur hun syna Vmgeingne j Himnen um / Philp. 3. Og huxar og astundar Himne ska Hlute / enn ecke Jardneska. Hun er su hin Frialsa. Þad er / Þesse merkest fyrer Saram / huör ed ei var Þy nie Ambætt / hell dur ein fry og frials Kuinna. Huör / Him- nesk Jerusalem / eda Andlig Kristne Christi Ad er Moder allra vor. Þad er / Huörs Syner vier erum / aller vier sem truum a Christum / og ödlunst Sæluhialpena / med Tr unne / enn ecke Verkonum. Þar fyrer erum þier og so Erfingiar ecke Veralldligra. And

ærpa Abrahams/ helldur Himneskra Audæpa/ Gudz Almattugz vors Ansamligasta Födurs.
Lærdomur:

So haper nu ei nie somer/ ad vier nidur söckum Salum vorum j holldligar Girnder/ huörium giepez er sa Himneske Arpuren.

Pier skulud og ecke pad vndrast / seiger S. Pall/ po ad Sara/ hün Obyria / hape so myken pisölda Barna / pui pad var so adur Fordum pyrer sagt og spaad/ Esa. 54. Pui ad skrifad er. Vm Kristeliga Kirkiu/ huör ed merkest pyrer Saram. Vertu glöd hün Obyria sem ecke fæder/ brioottu fram/ pyrer Fögnude/ og kalla sem ecke ert pun gud/ huiad hün ein sama hefur fleire Börn / Enn su sem Mannenn hefur. Pad er ad skilia. Kirkian Christi / huör ed syneft pyrer Heimenum vera Obyria / og einn sömul/ par med er hun pyrerliten / og j Op soknum plagud/ og nidur Prykt/hun mun po öngun sijdur gieta otelianliga Andliga Sonu/ pyrer Guds Ords Pionustu giörd/og hun mun gieta myklu pleire Sonu/ enn Gydinga Kristnen hepur gieted / huörre hingad til hepur pott vænt vm sig / og hepur pottst vera hün Friosamasta. Lærdomur.

Utsöldn Po peir ~~Pefndn~~ sien paer/ ad reikna/ hia peim otelianligu sem pyrer parast/ vegna pra Vantruar / pa mun po myktell Fiöllde og nær otelianligur verda Saluholpenn / pyrer Tru

er Truna a Christum)

Nu epter fylger/ huǫrier ad sieu syner Ab gar/ og huǫrier ad sieu Syner Saru. Enn vier kiærer Brædur. Vier sem vid leitum Riettlæter ad verda fyrer Truna a Christum enn ei fyrer Lögmaled/ Vier erum Fyrerheitisins Syner/ epter Isaach. Þad er ad skilia. Ulyka so sem Isaach/ huǫr ed siun um afgǫmlum Forelldrum var Fyrerheitenn/ og lofadur af Gude/ hann vard einungis Erfingenn ad Forelldranna Gosse / Enn Ismael vard vt rekenn. Eins lyka vier riett Truader/ og Kristner Menn sem merkiunst fyrer Isaach/ vier erum Erfingiar þeirra Himneſku Audæfanna. Enn hiner adrer Ismaelitar/ Syner Ambættarennar / munu vtrekner verda/ Þad er / Gydingar / Verk heilager og Hræsnarar/ þeir sem vilia blijfa vnder Lögmalsins Þrældome/ þeir leita forgiefens epter Riettlætenu/ af Lögmalsins Verkum/ og missa þar fyrer þa Himneſku Arfleifd.

Nu þo ad þeir synest j þessum Heime ad vera ædre og ypparligre enn vier/ og pijne oss og ofsæke vm Stundar saker/ þad skadar oss ecke par. Þuiad lyka sem j þann tijma/ skiede / ad sa epter Holldenu var fæddur / Fyrer vtan Gudlegt Fyrer heit/ sem var Ismael/ Offsokte þann/ Isaach/ og spottade hann/ Gen. 21. Huǫr ed epter Andan

P v. unn var

um var fæddur: Þad er / huört ed ecke all- einasta var komenn aþ Abraham epter Hollds- enu/ helldur var hann og so j Sannleika hans Andligur Sonur/ Endur gietenn aþ Gude. So skiedur þad og eirnen nu/ Ad þeir Hollдligu Abrahams Syner / Gydingar og adrer þeirra Makar/ þeir oþsækia þa Gudligu og sannarligu Abrahams Sonu/ riett Krist- na Menn/ þeir sem haþa og elska þann hrein- na og klara Euangelÿ Lærdom.

Lærdomur,

Nær nu so skiedur / ad vier verdum oþ- sokter/ aþ þeim Ogudligu/ þa vitum þad/ad vier erum ecke ad sydur Gude þægeliger. Hell- dur er þad sama oþalluallt Merke og Vitnis- burdur/ad þeir Blodþyrstu Euangelÿ Oviner þeir eru ei Guds Syner/ helldur vier sem aþ þeim verdum oþsokter, Þuiad ei oþsokte Isa- ach Ismaelem / Helldur Ismael Isaach) Enn huad seiger Ritningen ? Gene. 21. Huör verda æþelok/ þuilykra sem oþsækia Kri- stnena? Þad stendur hier. Rek burt Am- bættena Agar/ og hennar Son/ Þui- ad Ambattarinnar Sonur skal ecke erfa med Syne hinnar sem er frials. Nu þo ad vier lesum / ad Sara hun talade þssum Ordum/þa voru þau þar epter a/stad- þest og Samþyckt med Guds Atkuæde/ og A- braham hann rak burt Ismael / med hans Modur/enn hiellt epter Isaach og Saru.

Lær-

Lærdomur.

So munu nu vm síþer aller Opsoknar Menn Guds Kristne verda vt rekner / i yfir Myrkur/ þar sem vera mun Oop og Tanna gnýstran/ Enn Guds Pýslar vottar og Jata arar / Þeir munu þa og ödlast Arf Himna rýkis) Þar fyrer Kiærer Brædur / Skod ed og yþer veiged þetta rietteliga med ydur sialþum/ og hugleided huörier vier erum. En Vier erum ecke Ambattarinnar Syner. Sannlega veit eg (meinar S. Pall) ad eingen aþ ydur vill vera Sonur Ambattarinnar Agar/ Helldur/ erum vier Syner/ frialsrar Kuinnu/ Sem er Sara/ huad þier aller medkienned/og vilied sannliga vera halldner/ ecke alleinasta þyrer Holldliga Sonu Abrahams/ helldur vilie þier og vera/ hans riett er andliger Syner. Og þar þyrer munum vier. ödlast þa Himnesku Arþleiþd / ecke þyrer Prældomeñ eda Lögmalsins Verkeñ / helldur þyrer Truna a Jesum Christum.

Lærdomur.

Þar þyrer / Huörier sem hellst þeir eru/ sem leita vid ad verda Riettlæter þyrer sijn Verk/ þeir eru Ismaelitar/og þeir munu rekner verda fra Guds Rýke. Enn þeir sem vilia Riettlæter verda / aþ trunne a Christum/ þeir eru sanner Abrahams Syner/ og þeir eru Erþingiar Himna Rýkis / þad veite oss vor Himneskur Fader/ Amen)

Guds

I Þann tÿma. Epter þetta for
Jesus yfer vm Siafar Hafed
Galilee/ sem liggur vid Stad
enn Tiberiadis/ Og mÿkill
Mannfiölldе fyglde hönum epter/ þui
ad þeir sæu þau Jardteikn/ er hañ giö
rde a þeim sem Siuker voru/ Jesus gi
a. eck þa vpp eitt Fiall / og settest þar
nidur med sÿnum Læresueinum. Enn
þa var Paska Hatÿd Gydinga nalæg.
Og Jesus leit þa vpp/ og sæ ad mÿke
ell Mannfiölde kom til hans/ þa sag
de hann til Philippum. Huar kaupum
vier Braud so ad þesser neyte? Enn
þetta sagde hann til ad freista hans
þar med/ Þuiad hann visse sialfur hu
ad hann villde giöra. Philippus and
suarade hönum: Braud fyrer twö Hund
rud Peninga nægiast þeim ecke/ so ad
huör einn fæe þa nöckud lÿted. Einn
af hans Lærisueinum sem ad var And
reas Brodur Simonar Petri/ sagde hön
um. Eitt Vngmenne er hier sem hefur
fim̃ Byggbraud og two Fiska. Eñ hu
ad skal þetta a medal so margra? Þa
sagde

sagde Jesus/ Lated Mennena setiast nidur/ ad borda. Enn þar var j þeim Stad Gras mÿked. Og þar settust nidur / Karl menn ad tölu nær fiñ Þusunder . Jesus tok þa Braudenn giörde Þacker / og fieck sÿnum Lære sueinum/ eñ þeir feingu þeim sem nidur höfdu setst. Slÿkt hid sama af Fisk unum/ so mÿked sem huör villde hafa: Eñ þa ed þeir voru metter/ sagde hñ til sinna Læresueina . Safned saman þær Leyfar sam af geingu/so ad eckert spillist. Enn þeir söfnudu þeim saman og fylltu vpp tolf Karfer med þessar Leyfar / af þeim fiñ Byggbraudum/ huör ad voru aukt þess/ sem þeir höfdu neytt. Enn þa er þesser Mẽnn sau huö rt Teikn. Þad Jesus giörde / sögdu þeir. Þesse er sannarligaña sa Spama madur sem j Heimenn skal koma. Enn þa Jesus formerkte þad/ad þeir mun du koma og Hand taka hann/og giöra hann ad Konge/ flyde hañ eirn saman burt/vpp aptur a Fialled.

Sum̃a og Iñehalld Gudspiallsins.

Þetta

1 Þetta er ein Huggunarſamlig Hiſtoria/
og hun kienner oſſ /ad trua og treyſta Gude/
og falla ecke j Freiſtne nie Efaſemd/ þott lijt
ed ſie fyrer Höndum / helldur læta oſſ nægia
þad ſem Gud hann giefur oſſ dagliga/ huört
þad er meira edur minna/ og hallda oſſ faſt-
liga vid Herrann Chriſtum og hans Ord.
Þuiad ſo ſem hann j þeſſu Gudſpialle daſam-
liga fæder fim Þuſund Manna (fyrer vtan
Konur og Börn )med fim Braudum og tuem
einum Fiſkum/ ſo kann hann og vill næra og
fæda oſſ daſamliga / þo ei ſie Nægter viſſa
fyrer Höndum/ j huört ſinn / ſo ad vier höf-
um Nægiu vora/ og þad drygeſt og auaxtaſt
fyrer hans Bleſſan/ j vorum Höndum. Sod-
dan Bleſſan giefur nu Gud / þeim ſem hann
ottaſt og hann akalla / og huar ſem hun er/
þar er nog/ ſo þar eirnen geingur af/ og þar
verdur Leyfum ſafnad/ſo eckert ſpilleſt.
2 Þar Herrann bydur ad ſafna Leyfunum/
þar kienner hann oſſ/ ad huad Gud hann hef-
ur veitt og giefed/ þui ſkulum vier ecke onyt-
ſamliga eyda / edur ſpilla/ helldur hafa þar
allann hagnad vid. Þuiad ſo ſem Gude miſ-
lykar/ Vyl og Sorg og Ahyggia/ ſo miſlykar
hönum og eirnen / Onytſamlig Eydſla og
Spilling: Hann vill huört tueggia/ Bæde ad
vier truum og treyſtum hönum / ſo og lyka
ad vier ſaman ſöfnum til Hagnadar öllu þui
ſem oſſ af geingur.
3 Folked kiemur vr öllum ættum til Chriſt-
um/til

um/ til ad heyra Guds Ord/ Og Herrañ vpp-
hefur sijn Augu/ og sier þar æ. Og so sem
hann sæ aumur a þessu Folke / so vill hann
og sia aumur a oss / ef vier truum hönum/
og treystum.
4 Þar Herrann tekur ad sier Brauden og
Fiskana/ og giörer Þacker/ Þar kienner hann
oss/ ad aller Huter/ Matur og Dryckur/ver
de oss Heilager fyrer Guds Ord/ og Bænena/
so sem kienner S. Paull/ 1. Timot. 4.
5 Þar næst lærum vier hier/ ad ædur enn
vier neytum Fædslu vorrar / ædur enn vier
göngum til vors Erfuidis/ þa skulum vier a-
kalla og bidia Gud/ so mun oss allt vel Luck-
ast bæde til Lyfs og Sælar.

v

Fæder fiölda Lyda/ Fim̄ Þusunder a Grundu/ Med fim̄ Byggmiöls Braudum/ Blessadur Jesus þesse/ Og tueimur Fiskum: Froma/ Fyller/ og lijka Illa / Afgang æreñ feingu / Ei vill heitt ad spillest.

## Bænen.

DRottenn Gud Himneskur Fader / Þu sem fyrer þinn elskulega Son hefur j Eydemörkenne rijkugliga fædt og mettad fim̄ Þusund Manna (fyrer vtan Kvinnur og Börn) med Braudum fim̄/ og Fisk-

og Fiskum tueimur / Þig bidium vier / Vertu og so eirnen hia oss med þinne Blessan / Vardueit þu oss fra Agirnd / Buksorg og Ahyggiu / þessa Lijfs nær ingar / Lat oss fyrst leita þijns Rijkis og þijns Riettlætis / og veit oss þa þijnar Fødurligar Gæfur / j øllu þui sem oss til heyrer til Lijfs og Sælar / fyrer Jesum Christum vorn Herra / Amen.

## Sunudagen̄ epter Midføstu sem vier kollum Passionem Domini

Pistillen̄ Hebreos. ix. Cap.

Kiærer Brædr. Eñ Christer kominn̄ þad hann sie Byskup epter komande Audæfa / fyrer stærre og algiørdade Tialldbud / þa sem ecke er med Høndum giørd / þad er / su sem ecke er þessarar Byggingar / ecke helldur fyrer Hafra Blod / nie Kalfa / helldur er hann fyrer sitt eiged Blod / einu siñe jnngeingen̄ j hid Heilaga / og fann eilijfa Endurlausn / Þui ef Vxanna / og Hafranna Blod /

Blod / og Askann Kuijgunar adreifd helgar hina Saurugu til Holldsins hrei nsunar/ huörsu myklu framar mun þa Blodeð Christi(sem sialfan sig hefer an Fleckunar fyrer Helgann Anda Gude Offrad) hreinsa vorar Samuitskur af daudum Verkum / til ad þiona Gude lifanda? Og þar fyrer er hann eirnen Medalgöngu Madur hins Nyia Testamentesins / fyrer þann Dauda sem skied ur er / til Frelsunar vt af þeim yfer Trodningum (þær sem vnder hinu fyrra Testamentinu voru) so ad þeir sem kallader eru / med tæke eilijfa Arfleifd Fyrer heitesins.

## Vtskyring Pistilsins.

Pistillen til Hebreos / hann saman jafnar merkeliga þui Nyia Testamentenu/vid þad gamla/ og vtleggur og skyrer Figurur edur Fyrer myndan hins gamla Testamentisins/og vt þyder þær allar hid þagurligasta vppa Christum / vorn Lausnara og ædsta Kiennemann. Og seiger ad hann sie myklu ædre enn Aarons Kienne menn / bæde sinnar persionu vegna/ og so hans Fornar / og so lyka hans Embættis. Og epter þad Postulen hann hef ur vtskyrt og þrafi sagt allt Kienne manna

Q. Embætte

Embætte j gamla Testamentenu / og þeirra Embættis giörd. Þa setur hann Christum þar a mote/ og seiger.

Enn Christur er komenn/ þ ad hann sie Byskup epterkomande Audæfa/ fyrer stærre og algiördare Tialldbwd / þa sin ecke er med Höndum giörd / Þad er/ su sem ecke er þessarar byggingar. Ecke helldur fyrer Hafra Blod nie, Kalfa/ helldur er hann fyrer sitt eiged Blod / einu sinne jnn geingenn j hid Heilaga / og fann eilijfa Endurlausn. Þad er ad skilia/ Christur hann er sa sanne og hæste Kienne madur / huör ed oss hefur medur sinne Forn afrekad og vtuegad/ þau sannarligu og eilyfu Audæfinn. Þesse er ecke geingen jnn vnder Skugga Tialldbwdarinnar Aarons eda Leuit anna/ Helldur er hann geingenn jnn fyrer Aug lit þess Himneska Födursins / huör Himnesk Födursins Bygd/ ad merkest fyrer þad Sanc ta Sanctorum/ Og er ecke i Tiallbwd med Manna Höndum giörd / so sem Leuitarner höfdu. Hann vthellte og ecke Blode Hafra edur Kalfa/ helldur sialfs syns eigenligu Blo de/ til ad afma Syndernar / ecke einnrar eda annarrar Þiodar/ helldur alls Heimsins. Og med þessare sinne Fornfæringu / hefur hann/ j einu/ vtuegad oss eilyfa Endurlausn/ og eilyfa Frelsan fra Syndunum/ Dióflenum og

Hel

Hafe nu Christus. J XXXV/ Inngeing ed j pad Helgasta og bunded eilyfa Endurlausn/ Huar byrer Fornþæra þeir Mwkar og Messu prestar Pauans Christum þa so optliga j þeirra Messium / til Forlykunar Oppurs? Og byrst pad hann hefur oss eina eilyfa Endurlausn vtuegad/ þui skielpunst vier þa og erum hrædder/ vegna Syndanna? Ef ad vier truum / a Pennan Kienniemann og Endurlausnara?

Huiad ef Bloded Hafranna og Vxanna (Leuit. 16: Cap) Og Askan Kuijgunnar ædreifd (Num 19. Cap) Helgar/ (j gamla Testamentinu) þa saurugu / til Holldsins Hreinsunar. Pad er/ Ef ad þiss ar Ceremoniur og Embættis giörder. Leuitanna/ þar hafa giört Menn hreina/ hid ytra af Saurugleikanum/ so ad þeir sem so vrdu hreinsader/ þeir vrdu þa aptur skyrer og hreiner/ lijka so sem hiner adrer hreiner Jsraelite.

Huad myklu framar/ mun þa Blodeð Christi (huör ed fyrer Heilagann Anda hefur sialfan sig Gude / ann fleckanar offrad ) Hreinsa vorar Samuiskur / af Daudum verkum/ til ad þiona Gude lifanda? Pad er ad skilia/ Ef ad Forn þæringar Leuitanna gatu giört Menn hreina/ hid ytra/ og a Holld-

kiu/ Myklu framar mun þa Fórnfæringen Christi/ sem er langt vm Dyrmætare (huört ia hann fornfærde/ af Aeggian Heilags Anda/ sa sẽ er heitastur Kiærleike) hreinsa oss af vorum Syndum / vppa þad ad vier hier ept er/ höfum eina goda Samuisku / fyrer Truna/ og þionudum Gude fyrer þa Tru/ sann arligre Gudrækne og Gudhrædslu.

## Lærdomur.

Þuiad eingen god Verk kunna ad stilla vo ra Samuisku / so ad hun sie til Frids / þad verkar alleinasta Fornfæringen Christi / nær ed vier tökum hana til vor med Trunne)

Daud Verk kallar Postulen/ Syndernar/ af þui þær drygiast og giörast/ af Mönnum sem eru Andliga Dauder/ þad er þeir Jora nar lausu/ huörra Synder þa leida til eilyfs Dauda. Þar næst kienner Postulen / ad vier sieum þar fyrer hreinsader af Syndonum/ vppa þad ad vier eigum ad lifa Gude/ og þio na hönum/ huör ed ad eilyfu lifer / og eilyft Lyf gefur og veiter öllum þeim sem hönum þiona/og hann elska/ so sem hann seiger Jo hañis 14. Eg life/og þier munud lifa. Og þar fyrer er hann (Christur) Medalgön gu Madur hins nyia Testamentis (huört ad er Nadarennar Sattmale) so ad Hañ stadfastañ giörde Nadarinnar Sattmala Fyrer þann Daudann/ sem skiedur er/ til Frelsunar (af þeim yfer trodslum/ sem

sem vöru vnder þui fyrra Testament-
enu) Þad er so myked sagt/ Til þyrergiesn-
ingar þeirra Synda vorra/ sem giördar voru
j mote Guds Lögmale/vnder þui gamla Test
amentinu/ og enn nu j Dag giörast. So ad
þeir medtake Fyrer heited eilijfrar Arf
leifdar/ sem kallader eru. Þad er. So
ad þeir sem þyrer Þionustu giörd Euangelij
kallader eru til riettrar truar/ og jnn plant-
ader eru Kristeligre Kirkiu/ ad þeir ödlest og
þac eilijfa Farsælld og Glede/ sem Gud hefur
þeim loþad og þyrer heited/ þad oss öllum
Gud veite/ Amen.

## Gudspialled Johañ. VIII. Cap.

Þann tijma: Jesus sagde til Gydinga Folksins / og Hösd-ingia Kienne mannaña. Huör er sa af ydur / þad hann meige straffa mig vm nöckra Synd? Fyrst eg seige ydur Sannleikañ/ Huar fyrer truе þier mier þa ecke? Huör hann er af Gude/ sa heyrer Guds Ord/ Þar fyr-er heyre þier þau eige/. Þuiad þier erud ecke af Gude. Enn Gydingarner suör-udu/ og sögdu til hans / Seigium vi-er ecke vel/ þad þu ert Samuerskur/og

hefur Diöfulenn? Jesus hann suarade.
Eg hef ecke Diöful / helldur heidra eg
minn Födur / og þier vanheidrid mig.
Eg leita ei ad minne Dyrd / sa er sem
leitar og dæmer. Sannliga sannliga
seige eg ydur / Huör hann geymer mijn
Ord / hañ mun eige sia Daudañ ad ei-
lijfu. Þa sögdu Gydingarner til hans.
Nu formerkium vier þad þu hefur Diö
fuleñ. Abraham er daudur / og Spa-
mennerner / og þu seiger / Ef ad sa er
nöckur sem geymer mijn Ord / hañ skal
eige Daudañ smacka ad eilijfu. Huört
ertu meire Födur vorum Abraham / þu
ör ed Frañ lidenn er / og Spameñerner
eru og Frañ lidner? Huörn giörer þu
sialfañ þig? Jesus suarade. Ef ad eg
vegsama mig sialfur / þa er mijn Dyrd
eingen. Minn Fader er sa / sem mig veg
samar / huörn þier seiged ydar Gud ve-
ra / og þier þecked hann þo eige. Enn
eg þecke hñ / og ef eg segda þad eg þeck-
ta hann eige / þa være eg einn Lingare
lijkur ydur. Helldur þecke eg hann / og
eg geyme hans Ord. Abraham Fader
ydar gladdest / ad hann skyllde sia miñ
Dag / og hann sa hann / og vard glad

ur vid.

ar vid: Þa ſógdu Gydingarner til hũs: Þu ert enn ecke fimtugur / þo ſæſtu Abraham? Jeſus ſagde til þeirra. Sañliga ſannliga ſeige eg ydur / ad ædr enn Abraham var / em eg / Þa toku þeir vpp Steina / ſo ad þeir kóſtudu a hañ. Enn Jeſus fordade ſier / og gieck vt vr Muſterinu.

## Suma z Iñehalld Gudſpiallſins.

1 Þetta Euangelium hefur Merkeligann Lærdom inne ad hallda / ſem er / Ad þar er eingenn annar Vegur til eilijfs Lijfs / vtann þeſſe / ad hallda Jeſu Chriſti Ord / og þetta Orded / þad er ſa edla Fieſiodur og ſu einka Læckning / ſem vardueiter fra eilijfum Dauda / alla þa ſem þad geyma. Og þo þeir deyie Natturligum Dauda / þa Sal og Lijf ſkil iaſt ad / þa finna þeir þo ecke Daudans Ang iſt nie Beiſkleik Gudligrar Reide / huór Beiſk leike ad er j hia mórgum / Smeckur og Fyrer kare eilijfra Kuala / Helldur lijda þeir og ſo ſem burt ſofna vr þeſſum Heime.

2 Þetta ORD / er ecke Moyſis Lógmal / ecke helldur Lógmalſins Verk / ſo ad huór hñ giórer þetta edur þad / hann ſame ſkule verda Saluholpeñ. Helldur er þetta Orded Chriſti / Þu ſkallt trua ad Jeſus ſie Son Guds

og ad hann hafe Fornfært sig sialfann
a Krossenum / og þar med bitalad fyr
er vorar Synder / og ad Gud hann vil
ie taka oss j Sætt / og til Nadar / fyr
er Herrās skulld / ꝛ giefa oss eilijft Lijf-
Huör sem helldur þetta Ordeð / Þad er / Huör
hann þessu stadfastliga truer / sa same skal
ecke sia þann eilijfa Dauda.
3 Nu þo ad ORDED Christi sie soddan
Lækning j mote þeim eilijfa Dauda / þa er
þo eingenn Hlutur a Jördunne / sem so er for
smadr og fyrerlitenn so sem Gudz Ord / so sem
daglig Epterdæme nogliga bevijsa / og þad hid
sama hefr vered ein almeñelig klögū / allra hre
infer dugra Guds Orda Þienara / allt til þissa
Dags / og mun vera allt til Heimsins Enda /
Þuiad sa er Sannordur sem sagde / Marger
eru kallader eñ faer Vtualder.
4 Sök og Efne til slijkrar pricsku og sod
dan Blindleika / er þetta / sem sialfur Christ
ur hier seiger / Ad / Huör hann er af Gu
de / sa heyrer Guds Ord / Enn þier hey
red þad ecke / þar fyrer / af þui þier
erud ecke af Gude: Þad er / so myked sagt /
Huör sem ad giarnan heyrer Guds Ord / sa
same hann er af Gude / enn huör þad ecke hey
rer / hann er ecke af Gude. Huar af ad otvot
mælanliga epter fylger þetta / Ad huör sem
hann er ecke af Gude / sa er af Diöflenum /
Þad er

þad er/ hann er hans Þienare/ og heyrer til hans Rijke/ Þar þra varducite oss Gud Himneskur Fader/ Amen.

Judum Jesus tiade/ Jafn lyndur þad / Synder Ordu alldrei færdar / Eda Lygd sier til Blygdar/ Sijn Börn seiger hann girnast / Sæded Gudsdoms Rædu/Kunnodu hñ aller Oodañ/ Og villdu gryta Milldañ.

Bænen.

DRottenn Gud þu Himneskur Skapare og Fader þinn elskuligur Sonur vor liufe Lausnare Jesus Christus/ hañ hefur so sagt/ Huör hann varduciter mijn Ord/ hann skal ecke sia Daudann eilijfliga/ Vier Bidium þig/ Ad epter þui þu hefur giefed oss þitt Heilaga Ord/ þa gief þu oss og so þinn Helga Anda j vor Hiörtu / so ad vier vardveitum þitt Ord/og treystum þar vpp a af aullu Hiarta / og huggum oss þar vid j sialfum Daudanum / so ad vier ecke deyium eilijfliga / Veit þu oss þad fyrer þinn Elskuliga Son Jesum Christum vorn Endurlausnara/ Amen.

O. v. A Boda

# A Boðunar Dag Marie sem er gietnaðar Dagur Jesu Christi/ vors einka Lausnara. Pistill enn Esaie, vii. Cap.

A Þeim Døgum, Talade Drott enn til Achas / so seigande. Bid þier eins Teikns af Gude Drottne þijnum/ huỏrt þad er nidre j Vnderdiup um/ edur a Hædum vppe. Enn Achas sagde. Eige vil eg þessa beidast/ vppa þad eg freiste ecke Drottins. Þa sagde hann. Nu vel/ þar fyrer heyre þier af Hwse Dauids. Huỏrt er ydur þad forlijted/ad þier gióred Mönnum Angur/ þuiad þier vilied eirnen og angra minn Gud? Fyrer þa skulld mun Drottenn sialfur giefa ydur eitt Teikn. Sia/ad ein Jungfru er þunguð/ og mun eina Son fæda / og han mun hun kalla Emanuel. Smiórs og Hunangs mun hann neyta. So ad han kunne ad forleggia hid vonda/og ad vt velia hid góda.

Vtskyring Pistilsins.

Til Vnd=

Til Vnderstǿdu og Skilnings þessa Pistils þa er Þǿrf ad lesa 15. 16. Cap. hinnar 4. Kongañа Bokar/ Þar stendur so/ Ad Kongur Syrlands/ og Kongur Israelis/ þeir byriudu Strijd j mote Achas Konge Juda og Jerusalem og villdu hrinda honū vr Rijke/ eñ setia þar inn annañ Kong. Þa Achas Kongur spyr þetta/ verdur hann hræddur og skielfdur/ og allt hans Folk. Enn af þui ad Gud hafde Fyrerheited Dauid og lofad / ad þar skyllde ætijd vera Kongur yfer Juda/ af Dauids Sonum/ einhuǿr/ þa sende Gud Spamanneñ til Achas Kongs / og lætur seigia hǿnum/ ad hann skule ecke hrædast nie skielfast/ og lofar ad Jerusalem Borg skule frelsast fra þeirra valldе/ so framt sem Achas og hans Folk vilie trua Guds Fyrerheite. Og vppa þad ad Achas skule þui helldur trua þui sem Gud lofade. Þa seiger hier so/ Og Drottenn talade enn j annad sinn til Achas/ Kongs Juda / fyrer Munn Esaie Spamans / Seigiande / Bid þier eins Teikns af Drottne Gude þijnum/ huert helldur þad er j Vnderdiupum nidre eda a Hædum vppe. Þad er/ Kios þu þier eitthuǿrt Teikn eda Stormerke/huǿrt helldur þu villt ad þad skule skie a Jǿrduñe eda j Loptinu/ so þu viter þad fyrer vijst/ad Gud hañ vill frelsa þessa Borg j fra valldе þeirra tueggia Konga / sem voru þeir Israels Kongs

og

og Syrlands Kongs. Og Achas ſag
de/ Ecke vil eg þeſſ beidaſt / ſo ad eg
freiſte ecke Drottins. J þui ad bidia vm
Teikn/ Eg vil trua einfalldliga Guds Fyrer
heite. Lærdomur.

Ad þiggia þad Teikn ſem Gud bydur fr
am/ þad heiter ecke ad freiſta Guds / enn ad
beidaſt epter Teikne/ þegar Gud vill þad ecke
giefa/ þad er ad freiſta Guds/ Þar fyrer var
Achas einn Hræſnare/ Og þetta er ſidur Hræ
ſnaranna/ Þeir lataſt vera miög Gudhrædd
er/ enn j Raun og Sannleika hafa þeir öngva
rietta Tru til Guds. So giörde nu Achas
j þeſſum Haſka ſem hönum yfer Höfde hieck/
Hann ſende Bod til Kongſins af Aſſyria/ og
bad hann vm Styrk/ ſo ſem ad Jſraelis Gud
kynne hönum ecke Hialp ad veita ) Þa ſag
de hann/ Spamadurenn/ Heyre þier af
Hwſi Davids. Meiningen er þeſſe / Þu
Kongur og þitt Folk/ þier ſem erud af ætt
Davids/ enn hönum miög olyker/ Er þad lit
ed fyrer ydur ad þier onæded Menina/
þier onæded eirnen minn Gud? Sem han
ſegde ſo/ Þier Hræſnarar/ þier erud bæde Gu
de og Mönnum huimleider / Mönnum veite
þier Angr og Onæder/ Gude ſyne þier Stygd
og Sturlan. Lærdomur.

Þeſſe Aminnan hun heyrer med riettu til
þeim ſem þad hallda/ ad ecke ſie Þörf ad þeim
Heilögu Sacramentis/ edur ad medtaka þau/
þad ſie

þad ſie nog/ ad Menn trúe Guds Fyrerhett/
um/ og forſma ſo med þeim hætte/ þau Teikn
og Truarinnar Styrkingar/ og þikiaſt þo ſa
nit allſtödugier j Trunne. Soddan Hræſnarar
þeir eru Gude Luimleider / og ſo lyka kriſte/
ligre Kirkiu miög onædarſamer)

Þar fyrer (ſeiger Spamadurinn) mun Drottenn ſialfur giefa ydur eitt Teikn. Pad er/ þo þier villied nu ecke þiggia þad Teikn ſem Drottenn bydur ydur fram/ vm ydar Frelſan/ þa mun Gud vegna Meſſias (huör ed fædaſt mun af ætt Juda) enn nu leingur vardueita þeſſa Borg og þetta ydart Ryke. Og þegar ſa Sueinn fædeſt/ huör ad er eirn eilyfur Kongur / hann mun med augliöſligu Teikne/beuiſa/ ad hann ſie Meſſias og Heims ſins Lauſnare (Petta ſagde Eſaias fyrer/ ſiö hundrud Arum fyrer hingadburden Chriſti) Enn huört er þad Teikned: Sia þu/ ſeiger Spamadurenn/ Ein Mey/ Maria/ trulofud ad ſönnu einum Manne Joſeph / enn þo hrein Mey og okreinkt af hans Völldum. Mun Barn gieta / Ecke vid nockrum Kallmanne / helldur af Verkan Heilags Anda/ Og hun mun Son fæda / Eingietenn og Frumgietenn/ Og hans Nafn ſkal kallaſt Emanuel. Þad er Gud med oſſ. Þad er ſo myklid ſagt / Þad mun med Sanninndum reynaſt/ ad þeſſe Sonur Marie ſie Gud og Madur j eirne Perſonu/ og hann mun ſo vmgang

aſt m3

ast med Mönnum/ Sa same Gud mun openberast j Holldenu/ 1. Timot. 3. So ad huer hann þar ad sia og lyta Jesu Marie Son / sa ma med Sanníndum seigia/ ad hann hafe sied Gud sialfann/ af þui ad med þessum Manne byr og bygge ygiöruöll Guddomsins Upp fylling Lykamliga/ Coloss. 2.

Emanuel kallast Christur af Spamannenum af þui/ og þar fyrer/ Ad eilýfur Gud og Sonur Guds/ hefur þar fyrer teked Mannndom uppa sig/ ad hann hefde Umgeingne mz ödrum Mönnum/ til ad frelsa og endurleysa Mannligt Kyn/ Og er þesse Spadomur Utlegging hins fyrsta Fyrerheitis j paradys/ um þad Kuinnunnar Sæde sem sundur mætte ad meria Höggormsins Höfud/ Þuiad ecke mætte Christus kallast Kuinnunnar Sæde/ nema hann hefde af hreinne Mey fæddur vered.

Smiörs og Hunangs mun hann neyta/ so hann kunne ad forleggia hid vonda enn ut velia hid goda. Þad er so ad skilia/ Hann mun upp alenn verda eins og önnur Börn/ vid Smiör og Hunang ( þuiad enn nu skal su Vysa vera j summum Löndum/ad/ ung Börnum er giefed Smiör og Hunang til Fædu) Og þesse Meyiar Sonur hann mun upp vaxa og proast j Visku og Alldre og Nad hia Gude og Mönnum / so sem um hann skrifad stendur/ Luc. 1.

## Gudspialled Luce. I. Cap.

Enn a

EN a hinum ſietta Manude var Gabriel Eingell ſendur af Gude j Pa Borg j Galilea/ ſem nefndeſt Nazareth/ til þeirrar Meyar er föſtnud var þeim Manne ed Joſeph hiet/ af Hwſe Dauids/ og Heite Meyarennar var Maria: Og Eingellenn gieck jnn til hennar / og ſagde. Heil ſiertu Nadar fulla/ Drottenn er med þier/ Bleſſud ertu a medal Kuenna· Enn þa hun leit hann/ vard hun hrædd af hans Ordum/ og hugleidde ad huilijk være þeſſe Kuedia. Og Eingellenn ſagde til hennar. Ottaſt ecke Maria/ þui ad þu fanſt Nad hia Gude. Sia/ þu munt Barn gieta j Kuide þijnum / og munt Son fæda/ og hans Nafn ſkalltu kalla Jeſus. Hann mun mijkill verda/ og kallaſt Sonur hins Hæſta. Og Gud Drottenn mun giefa hönum Sæte ſijns Födurs Dauids/ og hann mun rijkia yfer Hwſe Jacobs ad eilijfu / hans Rijkis mun og eingen ender verda. Pa ſagde Maria til Eingelſins. Huörnen ſkal þetta ſkie/ af þui ad eg hefe öngvan Mann kiennt? Eingellenn ſuarade og ſagde til hennar. Heilagur Ande

mun

mun koma yfer þig og Kraptur hins Hæſta mun vm ſkyggia þig. Af þui/ og þad hid Helga ſem af þier mun fæd aſt/ ſkal nefnaſt Sonur Guds. Og ſia þu/ ad Elizabeth Frændkona þijn hef ur og Son gieted j Elle ſinne/ og þeſſe er ſiǒtte Manudur hennar/ ſem kǒllud var Obyria/ þuiad Gude er eckert Ord omættugt. Enn Maria ſagde. Sia/ Eg em Ambátt Drottens/ verde mier epter Orde þijnu/ Og Eingellenn veik fra henne:

## Jnnehalld og Sum̄a Euangelij.

1 Fyrſt ſkulu Godfuſs Hiǒrtu læra vt af þeſſu Euangelio / huǒriar ad ſie þær hell ſtu og ſierligoſtu Greiner/ huar fyrer Sonur Guds hann tok vppa ſig Manndomliga Nat turu. Og er ſu hin fyrſta þeſſe / ſem er/ Su hrædeliga og hryggeliga Fyrerdæmning/ huer er Adam med ſinne Ohlydne/ſteypte yfer allt Mannligt Kyn/ og eilyfur Andar Daude/ j huǒrium allt Mannkyned hefde orded ad bly fa eilyfliga / hefde Guds Sonur ecke tekeđ Manndom vppa ſig. Su ǒnnur Greinen þa er Guds Himneſka Fǒdurs ovmrædelig Nad og Myſkun og Elſka til Manntynſins/ huer ra hann j Kioſe liet nogliga og openberade j þeſſu/ ad hann gaf og ſende ſin̄ Hiartans Son j Heime

i Heimeri/ og liet hann j klædast vorn Holld og Blode/ So ad Guddomlig eilijf Nattura/ og Manndomlig Nattura/ þær eru nu ordnar ein Persona/ Vppa þad ad Mennkynid yrde endurleyst j fra Daudanum og Diöfulsins vall de. Þessa Hlutar vegna eigum vier vorum Himneska Födur og Skapara Lof og Packer ad segia/ og hann elska og hönum ad þiöna j Heilagleik og Riettlæte / alla vora Lijfs daga/ Luc. 1.

2 Næst þui þa er athuganda / huar fyrer Messias hann hlaut ad hafa bæde Gudlig og Manndomliga Natturu/ þad er þar fyrer skied/ ad eingen Skiepna a Himne nie Jördu/ vær su ed lijda kunne Guds grimdar Reide j giegn Syndenne/ edur hana ad stilla. Jtem/ Eingen Skiepna kunne Diöfulsins Valld nidur ad briota/ og hans Höfud j sundur ad meria/ Syndena burt ad taka/ Daudañ ad sig ra og yfer vinna/ Heluijte nidur ad briota / eilijft Lijf og Riettlæte aptur ad giefa Mañ ligu Kyne. Þetta kunne eingeñ ad giöra/ ne= ma sa sem hann være sannur eilijfur Gud og Almattugur.

3 Þad er og merkianda/ huar fyrer Messias hann hlaut ad vera sannur Madur med sannre Manndomligre Natturu. Sökenn er þesse/ So sem Madur syndgade/ j paradys/ so hæpde Guds Guddomligu Riettlæte / ad eim huör af Mannkyne/ fullte Guds Reide/ og giö rde Frid og Forlijkun/ mille Guds og Mañña

R · vegna

vegna Mannkynsins. Þar fyrer þa er hier/ vt af auglioſt/ ad Meſſias og Heimſins Lauſ nare / hann hlaut ad vera bæde Gud og Madur.

4 Huad hellſt Gud Drottenn hann hefur j ſijnu Orde lofad og fyrerheited/ þui ſkulum vier ſtadfaſtliga trua / ſo ſem Maria giörde/ huörſu otruligt og omöguligt þad er edur vera kann fyrer vorre Skynſeme/ og giefa Gude þa Dyrd/ ad hann ſie Alamattugur og fyrer hönum ſie eckert Ord omöguligt. Hans Nafn ſie bleſſad ad eilijfu.

v

Gabriel miuku Mali/ Mariu hel lſat klara/ Kuad hana Guds Son go dann/ Grædarann munde fæda / Hun vard af Eingels Ordum / Vpp fyllo Guddoms Millde/ Aúdmiuk allvel tru de/ Enn er hun frægust Kuenna.

Bænen.

DRottenn Gud Himneſkur Fader/ Af Hiarta giörum vier þier Þacker / fyrer þijna ovmrædeliga Nad og Myſkun/ Ad þu hefur minſt a oſſ aumar ſyndugar Manneſkiur / og hefur læted þinn Son taka a ſig Manndomliga Nattúru/ Vier bidium þig / ad þu fyrer þinn Heilaga Anda/ vpp lyſer vor Hiö

rtu/ſo

kru/ so ad vier jafnan og j alla stade/ kynnum ad hafa vora Huggun j Holld han og Hingad komu/ Pijnu og Dauda Þijns Sonar/ og jata og medkienna/ hann fyrer vorn Drottenn og Konung/ og ad vier fyrer hans Nafn og Verdskulldan mættum eilijfliga lifa med þier og þeim Heilaga Anda/ Amen.

## A Palma Suñudag Pistillinn til Philip. II. Cap.

Kiærer Brædur. Huór einn sie so sinnadur sem Jesus Christus var. Huór þo ed hañ være Guds mynd / hiellt hañ þad þo ecke fyrer neitt Ran Gude lijkur ad vera / helldur minkade hann sig sialfañ og tok a sig Mynd eins Þions / vard lijkur ódrum Mónnum / og ad Hegdan fundeñ sem Madur: Litelætte sig sialfann / og vard Hlydugur allt til Daudans / Ja allt til Krossins Dauda. Fyrer þui hefur Gud vpp hafed hann/ og gaf hónum Nafn / þad sem yfer óllum Nófnum er. So ad j Nafne Jesu/

skulu øll Knie sig beygia / sem a Himn-
um / og a Jørdu / og vnder Jørdunne
eru. Og allar Tungur skulu vidurkien-
na / ad Jesus sie Drottenn / til Dyrdar
Guds Fødurs.

## Wtskyring Textans.

S. Páll aminner j þessum Pistle alla Krist-
na Menn / ad þeir sie samlynder syn a
mille / og hafe Kiærleikan / og Lytilæted ast-
groed jnnbyrdes / Þuiad Lytelæte er sa Slut-
ur / huar af Kiærleikin vex og þroast / og so
sem Drambsemen er Vpphaf alls Osamþyckis
so er Lytelæted Kiærleikssins Root og Vpp-
haf / og hann vardueitest þar med. Og til
þessarar Aminningar / setur S. Páll fram
Epterdæme vors Lausnara Jesu Christi / huø-
riu vier eigum epter ad þylgia / og seiger so.

Huør og einn sie so sinnadur / sem
Jesus Christus / Hann var / vorrar End-
urlausnar vegna / til ad hialpa oss / þui ad
hann lytelæckade og audmykte sig hid allra me-
sta / so ad hann þeinge oss hialpad. Huør þo
ed hann være Guds Myynd / edur lijkur
Gude / hiellt hann þad þo eckert Ran
þad hann være Gude lijkur. Þad er / Enn
þo ad Christus (huør ad er Gud og Madur)
hann hafe þeinged og medteked Guddomliga
Magt

Magt og Almætte / ſo ad hann heꝼur epter Manndomenum/ iaꝼna Magt med Gude/ þa ſtærde hann ſig ecke þar aꝼ/ og ei hroosade hñ þeſſu / ſo ſem þeir plaga ad giöra / ſem Herr⸗þange ſkipta/ epter Ovine ſijna þellda.

Lærdomur:

So eiga eins kriſtner Menn ad giöra/ þ(er) ſem ad eru Chriſti Limer/ þeir eiga ecke ad ſtæ⸗ra ſig aꝼ ſijnum Gaꝼum) Helldur minkade hann ſialfañ ſig/ og tok a ſig Mynd ei⸗ns Þions/ vard lijkur ödrum Mönnum og ad Hegdan fundeinn ſem Madur. Þad er/ Þad Guddomliga Maieſtatis Walld/ ſem hann þeinged haꝼde epter Manndomin⸗um/ vegna eiñingar Guddomligrar Natturu/ vid þa Manndomligu/ þad liet hann ecke mi⸗og j lioſe/ þyrer ſijna Vppriſu/ og ei þramde nie audſynde hann ſijna Guddoms Magt/ nema þyrer Naudſyniar/ Sem var/ ad giöra Iar⸗teikner/ Helldur hegdade hann ſier ſo( einkum adur enn þad hann vpp byriade ſitt Embætt⸗te) ſo ſem ecke heꝼde hann neina Guddoms Magt. Og þo hann være Herra og Drott⸗enn yꝼer öllum Skiepnum/ þa liꝼde hann þo eins og være hann Þienare allra/ ſo ſem hañ ſeiger/ Matth. 20. Manſins Sonur er ecke komeñ/ til ad lata þiona ſier/ helldur ad hñ þione/ og gieꝼe ſitt Lijꝼ vt til Endurlauſnar þyrer marga. Hann er og lijkur ordeñ ödrum Mönnum ad öllum Eymdum og Alögum/ ſem

Mannkyned lÿdür/ vegna Syndanna/ enn þö
enn Synda/ So þar var eingenn Miſmunur
a mille/ hans og annara Manna. Hañ leid
Hungur og Þorſta/ Hañ vard Mæddur og
Þreyttur/ Hann leid Froſt og Hita/ Hñ vard
Hryggur/ Hann griet/ og hañ var j Sanleika
fundenn ad vera/ ſo ſem annar Madur. Og
j ſiñe Mandomligre Natturu þa/ Lÿtelæck
ade hann ſialfan ſig / og vard Hlydug-
ur / Födurnum/ecke alleinaſta/ j þui/ad upp
fylla Lögmaaled/ og lÿda þær ſameigenligar
Eymder ſem liggia a Mannligu Ryne/ hell-
dur og eirnen/ Allt til Dauda. So ad hñ
leid Dauda fyrer Mannkynſins ſaker. Og hñ
lÿtelætte ſig ſo miög/ ad hann leid ecke einn al
menneligañ Dauda / helldur hann beiſkaſta
og Suiuirdeligaſta Dauda/ſem var/Ja allt
til Kroſſins Dauda. Oho / Huad frabær
ligt Lÿtilæte var ſlÿkt? Lærdomur.

Med þui nu ad Drottenñ vor hefr ſo lÿte
læckad ſig / huad ber oſſ aumum Þrælum þa
ad giöra? Þar fyrer/a huör og einn ad lÿtel
læcka ſig fyrer ödrum/ Ef ſo er giört/þa mu
nde nidur leggiaſt Dramb og Metnadur / og
allar Þrattaner Kriſtinna Manna a mille.

Nu ſkyrer S. Paall þar fra / huörſu ad
Chriſtus/hann er jnngeingeñ j hans fullkom
liga Majeſtatis Dyrd/ epter þad hann hafde
fullkomnad þad Verk vorrar Endurlauſnar

Lærdomur.

Med

Med huörium Ordum S. Pall hañ kienẽ er oss/ ad þeir sem audmyktu og lijtelæcka sig sijnum Naunga til Gagns/ þeir enu sömu spe lla ecke sijnum Heidre/ og þeirra Virding myn kar ecke þar þyrer / helldur ödlast þeir meire Dyrd þyrer Pad sama ) og þetta / samt er S. Pall med Epterdæme Christi/og seiger Hyrer Þui hefur Gud vpp hafed hann/ Til hinnar hædstu Dyrdar og Tignar/ Og hefur giefed hönum eitt Nafn / huört ad er yfer öllum Nöfnum / So ad j Nafne Jesu skulu sig Beygia öll Knie/ þeirra sem a Himnum og a Jördu / og vnder Jördunne eru / og allar Tungur skulu vidur kienna/ þad Jesus Christus se Drottenn til Dyrdar Guds Födurs. Þad er/ Gud Fader hann hefur giefed sijnum Syne Jesu Christo / epter Manndomenum/ Yumrædeliga Maiestatis Dyrd og Almætte a Himnum og a Jördunne og j Heluyte/so ad allar Skiepnur eru hans Vallde Vndergiefn ar/ So ad Menn og Einglar hann til bidie/ enn Diöflarner þyrer hönum skielfest og hræd est/ og ad allar Skiepnur hliote ad vidurkien na/ ad Jesus Christus se Drottenn Himens og Jardar.

Þesse Guddomlig Maiestatis Dyrd/ skier der ecke Födursins Dyrd j neinu/ helldur er hu Födurnum til Dyrdar/Þuiad huör hann heid rar Sonenn/ sa heidrar og einnen Födurenn/

 og þar

og þar hvert a mote/ huǫr hann heidrar ecke Fǫdurenn sa heidrar ecke Sonenn/ Joh. 5. Ca.

Lærdomur.

Hier lære og eirnen Menn og Ruinnur/ ad nær hellst sem Nafned Jesu verdur nefnt/ þa er til heyreligt og Kristeligt/ ad Menn hneyge syn Knie/og take ofan sitt Hǫfudklæde/ eł so sem ad sie þetta sierlig Guds Dyrkan eda Kt onustugiǫrd/ Helldur ad þetta sie einn Vitnis burdur og eitt Merke Virdingar/Heidurs og Lotningar/ sem vier eigum ad veita vorum Endurlausnara/ Þviad ef Menn veita þessa Virding Dauðligum Mǫnnum/Herrum/Kon gum/Hǫfdingium / ad taka ofan Hǫfudklæde þa þeir nefna þa/ huad myklu framar ætt um vier þa Virding og Lotning ad veita/vor um Lausnara/ nær hellst vier hier hans Na fn heyrum. Enn þo ad allar Þioder enn nu ecke vidurkienne og jate Christum / þad sama skierder ecke þar hans Dyrd/ Þuiad neina þær idrist/ þa munu þær verda varar vid/ med sy num eilyfa Skada / ad þær hafa þann eilyfa Guds Son forsmad/ huǫr ad er sannur Gud og Drottenn Dyrdarennar. Lærdom.

So sem ad Lijtelæted Christi var hǫnum nu so sem vpp haf til hans fullkomenar Dyr dar/ So verdur og Lijtelæted þad sanna/krist num Mǫnnū til yferguæfanlligrar Himnesk rar Dyrdar/ þegar huǫr og einn hann lytelæt er sig fyrer ǫdrum:

Gud/s

Gudspialled fiendur a hinn fyrsta Sunnudag j Aduentunne/ þar mættu finna þad og lesa a þennan Dag. enn þo ma þessu þar vid auka/ ef vill.

## Gudspialled Matth. XXI. Cap.

OG Jesus gieck jnn j Guds Muster/ og tok til ad reka vt þa sinn þar selldu og keyptu og Bordunn Veslunar Manna og þeirra er Dufur selldu hratt hann vm/ og sagde til þeirra/ Skrifad er mitt Hws skal Bænahws kallast/ enn þier hafed giört þad ad Spilluirkia jnne/ og til hans geingu Blinder og Hallter j Musterenu og hann læknade þa:

## Summa og Innehalld þessa Textans

1 Ad Herrann Christur Jesus/ se ecke Veralldligur Kongur/ Og þad ad hans Ryke se ecke af þessum Heime/ þad sannar hann hier j þui/ ad þa Folked hefur nu veitt hönum þa ædstu Virding /sem sialfum Messia sombde/og medkiennt hann fyrer hann oyfferuinnanliga Kong/ og sijged hönum OSANNA/ so sem þeim rie tta sanna Syne Davids/þa vykur Christur ecke vppa Herodis Kongs Slot / helldur j Guds Musterer / þar med synande ad hann hefur ecke

Kv: med

med Ryke þessarar Veralldar / og er ecke Verl
alldligur Kongur/ Helldur so sem hann sagde/
Mitt Ryke er ecke af þessum Heime.

2 Af Vandlætingu Herrans Christi / reke
ande vr Musterenu Seliendur og Kaupendur/
læte aller Ordsins Þionar ad afstyra og forþ
hindra/ allt þad sem Guds Heilaga Nafne
er til Styggdar og Vanæru/ huört helldur þad
er j Lærdome/ ellegar Vondra Manna Fram
ferde/ og hafa æ tijd Lögmaalsins Suipu sier
j Munne til ad strappa / allt Ogudligt Athæ
fe/ med Gudligre Vandlætingu / med Banne
og Forbode/ so þeir giöre sig ecke Hluttakara/
Guds löstunar edur annara Manna Glæpa
og Synda.

3 Kirkiur og Hws sem Menn hafa til þess
ad predika jnne Guds Ord/ og handtiera þau
Hoguerdugu Sacramenta/ þau eiga/ Heidar
lig og hrein hallden ad verda / j Virding vid
Guds Heilaga Ord og þau Heilögu Sacra
menta/ þuiad Ohreinleike hann er fyrer Gu
de og godum Mönnum Andstyggeligur. Og
Herrann Christur seiger hier / Mitt Hws er
Bæna hws/ þar fyrer skyllde Menn þau van
da og pryda/ med allre Virdingu/ epter frem
stum Föngum.
4 So sem Spilluirkiar hafa sitt Inne co
ur Hæle/ j Hellum og Holum / þar þeir þik
iast trygguer/ þess a mille þeir ræna og stela/
og giöra Mein og Skada/ So eru marger/þe
ed lifa

ed liþa j Syndum og Glæpum/ ann Jdranar/ Þeir ganga til Kirkiu / þeir medtaka Sacra⸗mentum/ og giöra þo öngua rietta og ſanna Jdran. Þeſſu og þuilijkum eiga Guddhrædder Predikarar/ med Lögmalſins Suipu og Hrijſe/ fra ad vijſa/ og burtu hrinda ſo þeir ann ad huört betre ſinn Lijfnad / edur blijfe vtan Kirkiu/ ſo Guds Heilaga Nafn verde ecke Vanheidrad fyrer þeirra Hræſne /og ogudlig ann Lifnad/ Pſalm. 50. Stendur ſo/ Til hins Ogudliga ſeiger Gud / Huar fyrer bodar þu mitt Lögmal/ og þui tekur þu minn Sattmala þier j Munn? Þar þu hatar Agañ/og kaſtar Ordum mijnum a Bak þier. Þañ enn talar Gud til allra Hræſnara og jdranarlauſra Manna/ ſem lataſt vera fromer/ enn eru þo ecke nema Skalkar og Hræſnarar/ Þar fyrer ſiae huör ad ſier og giöre Jdran og Yfirbot.

5 Þar Blinder og Hallter ganga til Chriſtum og hann læknar þa/ Þar med ſyner hañ huar fyrer hann er j þennañ Heim komenn/ Sem er ad lækna alla Veſæla og veyka / þeir ſem til hans koma j Muſtered/ Þad er þeir ſem a hann trua/ og hans Ord Elſka/ þa vill hann alla lækna og holpna giöra.

# A Skijr Dag Piſtillenn til Corinth. fyrra Brefe XI. Cap.



Jærer Brædur. Þui þad hvad eg hefe af Drottne medteked þad hefe eg ydur feinged. Af þui ad Drottenn Jesus a þeir re Nott er hann var sui̇kenn / tok hann Brauded / giörde þacker/ braut þad/ og sagde: Taked/Eted/ þ er miñ Lijkame/ sa fyrer ydur verdur giefeñ/ Giöred þad i mijna Minning. Sömuleidis og eirnen Kaleikenn/epter þad hañ haf de Kuölldmaltijdina eted / seigande: Þesse Kaleikur er nytt Testament i mijnu Blode. Giöred þetta so opt sem þier drecked þar af / i mijna Minning. Þuiad so opt sem þier eted af þessu Braude / og drecked af þessum Kaleik/ skulu þier kunngiöra þar med Dauda Drottins / þangad til hann kiemur. Huör hann etur nu af þessu Braude/og dreckur af þessum Kaleik Drottins o verdugur / sa er sekur vid Holld og Blod Drottins. Enn huör Madur profe sig sialfañ / og ete so af þessu Braude og drecke af þessum Kaleik. Þuiad huör hann etur og dreckur overdugur / sa etur og dreckur sialfum sier Dom/ med þui hann giörde ecke Greinar mun a

Drott

## Vtskyring Textans.

S Paall hann hafur i fyrer farande Capitulū skrifad og leidrietted marga Osidu þeirra i Corintho Borg/ þeir ed oskickanliga handtierndu Herrans Kuølldmaltyd/þar fyrer minner hann þa/ ä / þa allra fyrstu Innsettning þeirrar Heilögu Kuølldmaltydar/ takande so til Ords. Þuiad af Drottne hef eg þad medteked / þann leynda Dōm Heilagrar Kuølldmaltydar/ Sem eg hefe ydur giefed. Þad er/ Feinged og vnder vyssad/ so sem eg hef þad af Drottne lært i hinum þridia Himne/ Þar fyrer ef þier trued minum Ordum/ og erud nier Hlydugter i þessu þa true þier sialfum Jesu Christo/og erud hönum hlydugter.

Lærdomur.

Þar fyrer eru þeir Menn miög Ogudhrædder/ sem ad forackta Drottins Kuølldmaltyd/ huörrar Innsetning og halld / sialfur Christur hefur Paale Postula openberad og bifalad/Enn latū oss heyra Herrans Innsetning. Þuiad Drottenn Jesus a þeirre Nott sem hann var/ Af hin otrua Lærsueine Judas Skarioth/ suikenn/ Og þegar hann nu sa sinn Dauda fyrer / þa giörde hann sitt allra Heilagasta Testamentum og/ Tok Braudeð. Þuiad / Sacramenta þau

hlidta

Drottenn Gud Himneskur Fader / Af öllu Hiarta þöckum vier þier/ fyrer þad þu hefur læted oss lifa þennan Nadar tijma/ a huörium þitt Heilaga Euangelium kienest og predikast / af huöriu vier lærum ad þeckia þinn Födurliga Vilia / og þijns Sonar Jesu Christi/ Vier bidium þig fyrer þijna omælanliga Myskun / ad þu læter oss biþallda þijnu Heilaga Orde/ Og styr oss so og stiorna med Helgum Anda þijnum/ ad alldrei Föllum vier þar j fra/ helldur blijfum þar stadfastliga vid og verdum so eilijfliga Sæluholpner/ Amen.

## Fiortanda S. d. epter Trinitatis Pistillinn Gal. V. Cap.

KJærer Brædur. Enn eg seige ydur / Ganged j Andanum/ þa munu þier ecke fullkomna Holldsins Giörder. Þuiad Lijkamenn girnest j mote Andanum / og Andenn j mote Lijkamanum. Og þesser eru huör j mote ödrum/ so ad þier giöred ecke huad þier vilied.
Enn ef

Enn ef Anden̄ stiornar ydur / þa eru þier ecke vnder Lögmalinu. Huad Holldsins verk eru openber / so sem ad er Hordomur Frillulifnadur Saurlijfe Lausung / Skurgoda dyrkan / Fiölkinge / Fiandskapur / Hatur / Agg / Reide / Þræta / Sundur þyckia / Tuidrægne / Aufundskapur / Mañdrap / Ofdryckia Ofæt / og þessum lijkt. Vt af huörium eg hefe ædur fyrer sagt / og seige enn nu fyrer / þad þeir sömu sem þetta giöra / erfa ecke Guds Rijke. Enn hier j giegn er Auöxtur Andans / Kiærleike Fögnudur / Fridur / Þolenmæde / Blijdleike / Godgirne / Tru / Hognærd / Hreinlijfe / j giegn þessum er ecke Lögmaled. Huad þeir sem Christi til heyra / krossfesta sitt Holld med Girndum / og tilhneyingum.

## Vtskyring Textans.

SPæll hann aminer þa Galatas / j hinum 5. Cap. Ad þeir læteecke taka þræser þad kristeliga Frelse þar næst / ad þeir skille ecke helldr vanbruka þetta Kristeliga Frelse / til sialþrædis / so sem ad mættu Men mi lifa og læta sem þeir vilia / þyrst þad þeir erir

fyrer Christum leyster fra Lögmalenū/ helld ur vill hañ ad þeir lifi Kristeliga/ og þui seger S. Pall so/ Eñ eg seige ydur/ Ganged j Andanum/ Sem hañ villde so seigia/ Vppa þad ad þier mættud skilia/ huad eg hef inte ad ydur/ Þa vil eg ad þier ganged epter Leidsögu hins Helga Anda/ Og þa munu þier ecke fullkomna Girnder ydars (spillta og Fordiarfada) Holldz. Þad er so ad skilia/ Med Hialp og Hiastod hins Helga Anda/ munu þier Motstödu veitt gieta þeim gamla Adam.

Lærdomur.

Merk hier ad Holldsins Girnder eru ecke ad eins ohreinar Hugreñingar og Lostasemder Hiartans / helldur allt þad sem er j mote þeim Helga Anda og Guds Lögmæle/ sem ad er/ Dramb og Dreiss/ Reide og Hatur/ Agirnd og Otru/ og allt annad þuilykt. Merk og þad/ S. Pall hañ talar ecke so / ad þeir skule ecke finna til Holldsins Girnda/ med sialfum sier/ Þuiad slykur Hreinleikur er önguñ dauðligum Mañe lanadur/ helldur kuedur. postulinn so ad Orde/ ad þeir Galatar skule ecke fullkomna og dryia Girnder Holldsins. Þuiad þar gietur einn godur Madur vidsied med Guðligre Hialp/ ad hañ falle ecke j openbera Glæpe/ epter Holldsins lyst og Aeggian. Enn/ þui eigum vier ad standa j mote vorre Syndum spilltre Natturu?

Þuiad Hollded girnist j mote Andanum/

ennum/ og Anden a mote Holldenu/ og þesser eru huör j mote ödrum/ so þier skuled ecke giöra huad þier vilied.

Lærdomur.

So leinge sem vier lifum j Heime þessum þa varer þesse Barætta a mille Hollds vors og hins Helga Anda sem med oss bygger. Þuiad Hollded girnest þar a/ og kostgiæfer ad giöra og fram kuæma þad eina sem Heilögum Anda misliikar. Þat a mote liikar Heilögum Anda þad eina sem Holldenu er þungbært/ og þui er þuert a mote/ og girnest vnder sig ad briota Hollded/ so ad þad fullkomne ecke nie fremie med Verkonum/ siinar oleyfeligar Girnder. Og þo ad so bere til/ j hia þeim Riettruudu/ ad Anden hafe optast Sigur j þessum Bardaga/ og briote vnder sig Hollded so þad fremur ecke siinar Girnder / þa er þo þesse Sigur j önguan mata algiördur nie full komligur/ vegna Veykleika vors Hollds/ Þui ad þad skiedur so/ Þa vier villdum sem fegn ast hallda oss j fra vondum Hugreñingum/ og röngum Hiartans Hræringum / þa verdur oss þad opt a/ j Hutonum Ordum og Giörd/ um/ sem vier villdum þa epter æ/ ad ogiört være. Þar fyrer er Kristins Mans Hlydne ofullkomlig/ so leinge sem vier lifum j þess/ um Heime)

Enn ef Anden stiornar ydur/ Ef þier liified epter aeggian og leidsögn hins Helga

Anda

Anda (seiger S. Paall) þa eru þier ecke vnder Lögmalenu.

Lærdomur.

Enn þo ad vier med Hiaalp og Hiaastod hins Helga Anda gietum lifad nærre lage epter Lögmalenu/ og höfum fyrer off Guds Bodord/ so sem annan Speigel Gudligs Vilia þa erum vier ecke þar fyrer vnder Plaaning Lögmalsins/ myklu sijdur vnder Lögmalsins Bölvan. Og so leinge sem þad vier erum stö dugier j Trunne og Gudligu Framferde/ þa þurfum vier ecke ad ottast neina Bölvan nie Fyrerdæmning/ þo ad so sie ad vor Hlydne hun sie veyk og ofullkomin / efad vier ad eins rekum ecke fra off þann Helga Anda/ liaande Taum Holldsins Girndum.

Lærdomur.

Enn ef einhuör kuedst ecke vita (seiger Postulenn) huör edur huilijk Holldsins Verk han eige ad fordast/ þa vil eg til Dæmis nöckur fram setia. Huiad openber eru/ Augliost er hia öllum kristnum Mönnum/ sem riett eru frædder og mentader /ad þetta eru Holldsins Verk/ sem ad er/ Hordomur/ Frillulijfe/ Saurlijfe/ Lausung/ Skurgoda dyrkan/ Fiölkinge / Fiandskapur/ Hatur/ Agg/ Reide/ Þræta/ Sundurþycke / Tuidrægne/ Aufund/ Manndrap/ Ofdryckia/ Ofneysla/ og þessu lijkt.

lijkt. Allar soddann Synder og Glæper / sem bæde j Guds Bodordum og annar stadar j Heilagre Ritningu eru bañader og þyrer bodner. Med þui soddan Synder eru lioslígre og almeñeligre (Gud hañ næde) enn þær þurfe ad skyra / þar þyrer læt eg huórn einn Gudhræddañ Mañ þar sialþann vm hura.
Vt af huórin eg hef ædur fyrer sagt / og seige enn nu / Huórn enda slijkt vill haþa sem er þeñan / Ad þeir sem slijkt giöra / Huórier hellst sem þeir eru / Erfa ecke Guds Rijke.

Lærdomur.

Nu þo ad Guds Rijke veitest oss og gieþst allelna þyrer Truna a Christum / þyrer ecke þar / þo samt eþ ad nöckur dryger soddan Synder edur adrar þuilijkar / hañ same giörer sig overdugañ Guds Rijkis / og hrepper ecke þann Arþ. Þar þyrer liggur stor Magt þar a / ad vier siaum oss vel vid / ad vier þöllum ecke j soddan Synder. Enn eþ vier þöllum / þa rijsum jaþnsnart vpp aptur / þyrer rietta og sanna Jdran)

Nu ma einhuör seigia / Huör eru þa þau god Verken / sem vier skulum astunda ad giöra? Þesse sem Heilagur Ande verkar med oss / Enn Auóxtur Andans er Kiærleike / Fögnudur Hiartans / Nær riettruadur Madur hañ er viss vppa Guds Myskun og sijna Sælu

Saaluhíalp/og er þar þyrer aþ Hiarka gladnie og stundar sitt Kall og Embætte / aþ Tru og Dygd/ Fridur/ Rosamlig Samuiska/ þyrer Gude/ og god Ástundan til Fridar og Samþyckis hia Mönnum/ Polenmæde/ j allskyns Motgange og Meingiördum/ Blijdleike/ Pad köllum vier goda og liuþliga Sidsemе/og prudt Dagþar/ Godgirne/ Su ed hialpar/ Samkristnum Naudstöddum/ Tru/ Ad hallda Ord og Loþaner/ Hogværd/ Su ed vm lijdur Breck og Brest Naungans/ Sparneytne/ Hreinlijfe/ j giegn slijku ecke Lögmaaled/ Pad er so mijked sagt/ þeir sem astunda soddan Dygder og Mannkostu/ þeir þu rþa ecke ad ottast Lögmaalsins skielþing nie Böluan. Og þeir sem eru riett Gudhrædder þeir misbruka ecke soddan Huggan/ til Synda og Sialþrædis/ þui seiger S. paall/ Eñ þr sem Christe til heyra/ þeir sem eru hans Limer. Þeir krossfesta sitt Holld med Girndum og til hneygingum. Pad er. Þeir riett Kristnu/ þorðast allt þad þeir giet ta / ad læta Hollded koma þram jnn þæddum Girndum og Syndum / Hellдur / aþ slijka sem einn krossþestur Madur/ hañ kann ecke neitt ad giöra/ aþ þui hans Hendur og Fætur eru vid Krossen þestar/ so giöra þeir Gudhrædder/ þeir hepta vondar medþæddar Girnder / og haþa Taum a þeim/ so ad þær giöre ecke jllt.

Þar þyr=

Þar þyrer/ Huðr sem hañ latuk epter Holldz ennu / og giörer þess Vilia / kastande þra sier Otta Drottins/ sa skal vita hañ heyrer ecke Christo til/ og ecke mun hann Hluttakare vera hans Rijkis.

## Euangelium Luce. XVII. Ca.

Þann tijma. Og þad skiede so / þa ed Jesus gieck til Jerusalem/ ad hañ ferdadist j gignum midia Samariam/ og Galileam. Eñ sem hañ gieck jnn j nockurt Kauptun/ mætte hönum Tiu lijkþraer Meñ/ huörier ed stodu lagt j burt fra/hofu vpp sijnar Radd/ og sögdu. Jesu gode Meistare/ myskunna þu oss· Enn sem hañ leit þa / sagde hañ til þeirra: Fare þier og syned ydur Kieñemöñonum. Og þad skiede so þa er þeir geingu þadañ/ ad þeir vrdu hreiner. Enn eirn vt af þeim/ þa hañ sa þad ad hañ var hreinn orden / snere hñ sier aptur/lofade Gud mz hærre Raust/ og fiell fram a sijna Asionu fyrer Fætur Jesu / giörande hönum þacker/ og þesse var Samuerskur. Enn Jesus suarade og sagde. Huört voru ecke Tiu hreinsader

hreinsader: Enn hvar eru hiner niju? Fa-
nust eingen annar sa aptur snere og gæs-
se Gude Dyrdina / nema þesse Utlend-
ingur? Og hañ sagde til hans. Stat-
tu upp og far hiedan / þuiad þijn Tru
ha giörde þig hialpligan.

## Su ñña z Jñehalld Gudspiallsins

1 J þessu Euangelio syner Herrañ Jesus
sijna Gæsku/ þar hañ sampijnist þessum aum-
um Lyk þram Mönum / og giörer þa Heil-
brigda/ strags þegar þeir kalla til hans. Hu-
ar vier höfum lioft og bert Dæme/ huört vier
eigum ad flyia/ huörn vier skulum til bidia og
akalla i öllum Naudsynum og Motgange/
sem er Herrañ Jesum Christum / hann er sa
sem hialpa kann og vill.

2 J ödru lage er hier bunt o þacklætis Ep-
terdæme/ a þessum Niju sem hreinsader vordu/
þar kiemur ecke aptur utan einn/ ad þacka þyr-
er so storan haleitan Velgiörning/ Hiner ad-
rer meintu ad ecke hefde Christur giört þetta/
þetta hefde ætt so ad skie/ þad hefde vered
þeirra Lucka/ og hefde so viliad til.

3 So sem i bland þeirra Tiu sem ed hrein-
sader voru var ecke þacklatur nema einasta
eiñ/ og þo eiñ Utlendingur / so geingur þad
enn til i kristeligre Kirkiu/ J bland Tiu sinst
valla einn sem þacklatur er vid Gud / fyrer
þ hañ

þad hañ þyrergiefur off Syndernar/ og veiti er off adra otelianliga Velgiörninga / bæde Andliga og Lijkamliga sem Gud Himneskur veiter off/ Þar þyrer þa skal huör Madur læra/ ad vidurkieña Guds Velgiörninga / og sijdan ad giöra hönum Packer þyrer þa/og ad bidia Gud ad hañ take ecke sijna Blessan þra off/ helldur auke hana og auaxte.

4 Aþ þessum Ordum (Þijn Tru giörde þig holpen) lærum vier, þad/ Ad þegar vr er aföllum Gud og bidium hann vm nöckud/ þa skulum vier ecke vera eþasamer/helldur mz Hiartans Tru og Trauste þorlæta off vppa Guds Næd og Myskun/og hugga off þar vid þa munum vier eþluast þa Hialp og Hiastod og verda Bænheyrder

5 Spitelska merker vpprunä Syndena / Þuiad so sem Adam og Eua þau voru epter Falled/ so er og allt þeirra Aþkuæme/ Þuiat so sem þau þa höþdu eitt Holld med Syndeñe spillt og eitrad sem var hneygt til hins Vonda/ so haþa og aller hans Epterkomendur eins Holld og Blod / til hneygt til Syndareñar/ Alijka so sem aþ Spitelskum Födur og Modur kann ecke ad þædast nema spillt Börn og spitelsk/ Eins og Forelldrarner eru so ver dum vier aller j Syndeñe og med Syndiñe þæd der. Hier aþ kiemur þad/ ad aller Meñ þeir eru til hins vonda aþ Næatturuñe hneygder. Nu so sem þad er omöguligt ad nöckur Mad

vit græde Spitelsku edur Lykþra / nema Gud alleina. So er omóguligt óllum Einglum óll um Mónum óllum Skiepnum ad afma edur hreinsa þa enu minstu Synd/ Alleinasta Herr ann Jesus hann hreinsar af Syndonum alla þa sem hann bidia þar vm med riettre Tru.

ð

Tueir og tuenner fiorer/ Toku aller senn kalla/ Spillter Menn og mælltu/ Aliukur oss Lækna Siuka / Jesus Ord de liosu/ J einu giórer þa hreina / Ecke af óllum þackar/ Nema einn med Lof giórd hreinne.

Bænen.

HErra Gud Himneskur Fader/ þu hefur fyrer þitt Blessada Ord og fyrer þa Hailógu Skyrn myskunsamliga hialpad óllum oss sem a þig truum/ af þeirre hrædeligre Spitelsku / sem er Synden/og enn nu j Dag veiter þu oss Hialp og Hiástod j óllu þui sem oss a liggur/ Vier bidium þig/ Vpp vek og vpp lys vor Hiórtu med Helgum Anda þinum/ so ad vier alldrei latum oss sodan Velgiórninga vor Minne lijda/ Helldur ad vier Dagliga Dags lifum j þinum Otta/vonum og væntum vppa

þyna

þijna Myſkunſeme / og æthid ſieum þier þacklæter med godre Von og gladværu Hiarta / fyrer Son þinn Jeſum Chriſtū vorn Drotteñ + Herra / Amen.

## Fimtanda S. d. epter Trinitatis Piſtilleñ Gal. V. og VI.

Kiærer Brædur. Fyrſt vier lifum j Andanum / þa gǫngum eirnen j Andanum. Og verum eige Agiarner Hiegoma dyrdar huǫr annan jñbyrdis ad reita. og ad ǫfunda. Kiærer Brædur / Ef ad Maduren verdur j einhuǫrum Glæp hin dradur / þa leidrietted hañ med hoguær um Anda / þier ſem erud Andliger / og haf gæt a ſialfum þier / ad þu verder ecke freiſtadur. Eirn bere annars Byrde / og ſo munu þier vpp fylla Chriſti Lǫgmal. Enn ef eirn huǫr lætur ſier þikia þad hañ ſie nǫckud / ſem hann er þo eckert / ſa tæler ſialfan ſig. Huǫr + einn reyne ſijn Verk / þa mun hañ a ſialfum ſier Hrooſan hafa enn eige a einum ǫdrum. Þuiad huǫr og eirn mun ſijna

 Byrde

Byrde bera. Enn sa ed leirriettur verdi ur med Ordenu/ hañ byte hõnum alls hættudum Audæfum sem hañ leidriett er. Fared eige viller vega/ Gud lætur ecke ad sier hæda. Þuiad huad Madsureñ sæer nidur/ þad mun hañ vpp skiera. Huor a Hollded nidur sæer/ sa mũ af Holldenu Skadseme vpp skiera. Enn huor j Andanum nidur sæer / sa mun af Andanum vppskiera eilijft Lijf. Þreytunst vier ecke gott ad giöra/ þuiad a sijnum tijma munum vier eirnen oþrotnande vpp skiera. Fyrst vier höfum Tijdena / þa giörum gott huörium Maññe/ eirna mest þeim sem eru Truar innar Heimkynne.

## Vtskyring Textans.

HJer er ein Amiñing/ ad huör Kristinna Maña skule jnnbyrdis/huör ödrum þiona j Kristeligum Kiærleika/ Ef vier lifum j Andanum/ Þad er/ Ef vier erum lijkgadyr ordner fyrer Euanglium Christi/ og af Syndaña Dauda Andliga vppvakter/ Þa göngum og so eirnen j Andanum/ Þad er / Lifum andliga / göngum ecke epter Aeggian vorrar spilltrar Natturu / helldur Heilags Anda Lærdomur.

Lærum

Þarum hier þetta/ Ad þeir sem ecke vilia lata Heilagan Anda stiorna sier/ þeir hrossa sier þorgiepins þar af / ad þeir sie Endurfæddir. Item/ Þeir einer ganga j Anda/ sem setia sier ad lifa epter Guds Bodordum/ j huörre hellst Stiett sem þeir eru/ Andligre edur Veralldligre.

Nu epter fylgia hin og önnur Bodord/ til godra Verka. Verum ecke agiarner Hiegoma dyrdar/ huör annan innbyrdis ad reita (Til Þrætu og Sundurlyndis) og ad öfunda/ Þegar ödrum vegnar betur.

Lærdomur.

Huör hafier Metnadarsamur/ og vill vera myckill/ og lata hallda af sier/ og hafa sio rann Lofstyr/ han kann ecke ad lijda neinn sier iafnan/ og önguan sier ædra/ Þar af verda Þrættaner og Misþyckiur/sem mestan Skada giöra bædej Andligre stiett og Veralldligre)

Kiærer Brædur/ Ef Madur verdur j einhuörium Glæp hindradur/ Þad er / Ef nöckur Madur Kristin a medal ydar/ verdur af Diöflenum sucken/so ad han fellur j eitt huört villu/ edur Vantru/ edur Synd / edur Glæp einhuörn/ þa skulu Þier ecke strags vera Vonarlauser vm þann Man / ei helldur hallda han edur hafa fyrer nöckurn Ovin. Þa skulu þier sem Andliger erud leidrietta hann þann Mann . Hier hefur S. Pall soddan Ord j Griskune huört ed nerst

huört ed merker / Nær ed Lönd edur Fotur Mans þer wr Lide/ þa skal Madur koma þui j Lid aptur. Enn med huörium Hætte? Med hogværum Anda. Þad er/ Madur skal þa sem falled hafa/ vidreisa hægliga/ og fara mſtudliga og miukliga ad vid þa.

Lærdomur.

Þuiad þeir sem oviliande hrasa / edur af veykleika Holldsins falla/ og ecke forsuara sij na Synd/ þeir þurfa vid Huggunar enn ecke hardrar Ströffunar/ Þuiad opt falla Heilag er hrædeliga og verda af Diöflenum felldev og suikner) Huör þu ert (seiger S. Pall) þa skalltu so höndla vid þin̄ Brodur/ Og haf gꜳt a sialfum þier / Þad þu verder ecke freistadur/ Þad er/ Hugleid ad þu ert lijka med Syndum spilltre Natturu sem han̄/ Og þad kann til ad bera/ ad þu faller j sömu Sy nd/ ellegar og stærre/ Þar fyrer/ So sem þu villder þa lꜳta höndla vid þig / þa skalltu so breyta vid þinn Naunga.

Lærdomur.

Alla tijma eigum vier ad lꜳta an̄ara Man̄a Föll og Hrasaner aminna oss a vorn Veykleika / og so ad vier göngum varliga og lijtelꜳtliga. Einn bere annars Byrde/ Þad er/ Umlijdum Naungans Veykleika / sie þad Ostdgiæde edur huad annad þui lijkt/ sim̄ han̄ gietur ecke ad giört / og þo oss sie leide a keim Ostd/ þa eigum vier þo ad hafa samt

kristelig

kristeligan Kiærleika vid Naungann. Huiad mællt er/ Vita skal Vina Löst/enn hata ecke? Og so munu þier vpp fylla Christi Lögmæl/ Pad er/ Pa giöre þier þad sem Christus baud/ Eitt nytt Bodord gief eg yd ur/ad þier elsked huór añañ jñbyrdis Jo. 13.

Lærdomur.

Nu þo slijk Elska sie opullkomeñ/ Pa hellt dur þo Christur (af sinne oseiganligre Elsku og æst til vor) oss hafa vpp fyllt þetta hans Lögmæl/ þa hañ sier oss hafa Vilia og Ástun dan til ad giöra þad hañ hefur skipad. Par fyrer læte eingeñ sier þikia so vænt vm sig/ sijnar Gaafur/sitt erligt Sidferde/ad hañ hall de sinn Naunga j Forachtan / og overdugan ædur nefndrar Linkindar og Kiærleika.

Huiad ef einhuór lætur sier þikia / ad hañ sie nöckud / fram yfer adra/ sem hañ er þo eckert/ Hafande huórke þær Gaafur nie þa Mañkoste sem hañ læst hafa / sa tæla er sialfan sig. Slijker Siergoder/og Sialfs hælner Meñ munu vm sijder ad Sneypu verda fyrer Gude og Möñum. Og þeir sem dra mbsamliga fyrerlijta hallnar Mañeskiur/þeir Hræsnarar eru oprsiñis meire Ströffunar makliger/ Huór eiñ reyne sijn eigen verk. Pad er/ Ef þu villt ad adrer breyte vel / þa hyga þu sialfur vm þitt Framferde fyrer Gu de / þa kanntu rietteliga ad dæma vm adra. Pa mun þu a sialfum sier Hrosan hafa

 eñ ecki

einn ecke a ödrum. Pad er/ Þú skalltt ecke bera þijna Sidu saman vid annara Manna Breytne/ Þuiad marger þikiast þar fyrer god er/ ad þeir sia adra verre j kring vm sig/ Hell dur giættu ad sialfs þijns Framferde/ Sie þad ostraffanligt öllungis/ þa hefur þu Hrosann hia þier og Vitnisburd godrar Samuisku/ Enn ei skalltu leita þier Hrosunar/ af þui/ þott þinn Naunge sie ostyrkuare. Og grafast epter Misfellum Naungans/ og openbera þau slijk Motuitne er ecke hæfelig kristnum Mönnum Þuiad huör og einn mun (a sijdasta Deige) sijna Byrde bera/ Pad er/ þa mun sierhuör Gude giallda skyn fyrer sialfs sijns giörder.

Lærdomur.

Þar fyrer vere huör og einn sem mest ahyggiufullur vm sialfs sijns Personu/ ad hann hafe rietta Tru/ og meinlaust Framferde ryne ecke j annara Manna Giörder nie Samuiskur/ nema hann hafe Kallann og Embætte þar til.

Enn sa ed leidriettur verdur med Guds Orde/ hann byte hönum alls hatt udnum Giædum sem hann leidrietter. Pad er/ Giöre honum aptur a mote allt til goda.

Lærdomur.

Ad vnderuijsa truliga og rietteliga j Guds Orde/ þad er meire Velgiörningur enn hann kunne med nöckrum Verallðligum Gæfum/ ad verda bitaladar. Þar fyrer eru Tilheyrendurner

hier skylldugier þacklater ad vera vid synis Kienefedur/ Þeir eiga ad vera Trulynder/ og kostgiæfner ad kienna / og Gudhrædder) Fared ecke viller Vegar / Þad er/ Suik id ecke sialfa ydur / þa þier vilied ecke giefa nie giallda Ordsins Þienórum þad þier erud þeim skylldugir/ Þuiad Gud lætur / ecke (þergiefins) ad sier hæda. Suo hier um þeir ed taka fra Ordsins þienórum þeirra Vpphellde / þikiande þad allt ofmykid sem þeir hafa/ kallande þa agiarna osedianliga/ þo þeir villie hafa sitt (þar þeir þo ecke hafa nie girnast fram̄ yfer naudsynliga og ærliga Atuinn) þesser sómu hæda ad Gude / huad Gud vill a synum tyma straffa. Þuiad hua ad Madurin̄ sæer nidur/ þad mun hn̄ vpp skiera. Suad hellst huer han̄ giórer/ sie þad gott/ sie þad illt/ þad mun han̄ ódlast og medtaka annars Heims/ Þuiad huór han̄ sæer j synu Holldе/ Þad er/ Suór han̄ lifer epter Girndum syns Holldz/huór han̄ gley mer Guds Ords Þionustu mónnum/ og er so nydskur han̄ vill ecke þm hialpa nie þa styrkia ellegar lifer j ódrum Syndum/ Sa mun af Hollдenu vppskiera Skadseme. Sann mun þaf Laun Holldligra Verka/ sem er eilyf Glótun. Enn huór han̄ sæer j Andan um/ Þad er/ Suór han̄ lifer epter Auijsan hins Helga Anda/ styrker giarna til Guds Þi

 onust

onnytgiördar/ af riettre Tru/ og þat med aud syner sijna Tru med ödrum godum Verkum/ Sa mun af Andanum vpp skiera eilijft Lijf. Pad er/ Hañ mun ödlast eilijf Laun þyrer sijn god verk. Enn þo ad vier verdum þyrer Truna a Christum alleina Riettlater og Saluholpner/ enn ecke þyrer god Verken (Rom. 3. Eph. 2.) þa samt vill Gud end urgiallda god Verkeñ med eilijfum Launum/ þau Verken sem koma af rettre Tru:

Af þyrer farande Rædu giörer S. Pall eina aluarliga Aminning til godra verka seigiande/ Þreytumst ecke gott ad giöra.

Lærdomur.

Ongur er godum Manne ad þui / þa hañ sier þad ad hans Velgiörningar eru j vondan stad nidur komner/ þo samt skal ei vpp giefa gott ad giöra/ Þuiad a sijnum tijma mun nm vier vpp skiera o þreytter. Pad er/ Annars Heims munum vier o þriotande Lauñ þa og ödlast/ j staden vors Erfuidis sem vier höfum hier. Lærdomur.

Nær sem hellst off leidest Gnæde og Erfuide þessa Heims/ þa eigum vier strax ad lypta Augum vorum og reña Hug til epter kom anda Kornskurdar. Þar fyrer a medan vier höfum Tijman/ Medan vier lifum / þuiad vier vitum ecke huad leinge vier lifum hier j Heime/ Þa giörum gott huörium Manne/

Manne/ einnen mest þeim sem eru Tru-
arinnar Heimkynne: Þad er/ Þeim sem
eru einnrar Truar og vier/ og þeir sem oss
eru teingder ad nóckru/ þeim skulum vier hellst
gott giöra/ Þuiad sa hann rækter ecke sijn Hiw
og sijna/hann er Vantruudum verre.

## Euangelium Marci VI. Ca.

Þann tijma. Jesus sagde til
sinna Lærisueina: Eingenn kann
tueimur Herrum j senn ad Þio
na. Annad huórt hann afrækter
þann eina og elskar hinn annann / eda
hann þydest þann eina og fyrer lætur hinn
annann. Eige giete þier Gude þionad/
og þeim Mamon . Þar fyrer seige eg
ydur/ Vered eige hugsiuker fyrer ydru
Lijfe/ huad þier skuled eta og drecka/
og eige helldur fyrer ydrum Lijkama/
huórtu hann skal kladast. Eda er ecke
Lijfed meir enn Fædslan/ og Lijkamenn
meire enn Klædnadurenn? Lijted a Fug-
la Himens þeir ed huórke sa / nie vpp
skiera/ og ecke helldur safna þeir j Ko-
rnhlódur/ og sa hinn Himneske Fader-
inn/ hann fæder þa. Eda eru þeir ecke
mycklu

myklu framar enn bekr? Enn huǫr ydar gietur med siñe Ahyggiu auked einne Alin vid sijna Leingd? Og huar til eru þier Hugsiuker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Liliu Grǫsum/ huǫrnen þau vagsa vpp / þau vinna ecke nie spiña/ Enn eg seige ydur/ þad Salomon j allre sinne Dyrd/ var eige so skryddur sem eitt af þeim. Eñ fyrst ad Gud pryder so Grased þad j Dag er a Akre/ og a Morgun verdur j Ofn kastad Skyllde hann eige myklu framar þad sama vid ydur giǫra/ o þier lijtil Truvader? Þar fyrer skulu þier ecke hugsiuker vera so seigande. Huad eigum vier ad eta / eda huad eigum vier ad drecka/ eda med huǫriu eigum vier ad klædast? Þuiad epter þessu ǫllu leita heidnar Þioder. Og ydar Himneskur Fader/ hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkis og hans Riettlætis/ og mun ydur allt þetta til leggiast. Fyrer þui skulu þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgun Deigenum/ þuiad Morgun dagurenn mun fyrer sialfum sier Vmhyggiu bera. Af þui ad huǫrium Deige næger sijn

er sỹn Þianing.

## Sum̃a z Jñehalld Gudspiallsins.

1 Fyrst stendur hier ein Amiñing/ ad Mech
skule Gude alleina þiona enn ecke Audæfum.
Gude ad þiona/ er þad/ ad giöra þad eina sem
Gud hefur boded og skipad/ vera trur og j deñ
j sijnu Kalle og Embætte / hafa þad Traust
á Gude/ ad hañ sie so Almattugur/ ad hann
kunne ad forsorga oss fyrer Mat og Dryck
og öllu þui sem vier höfum Þörf til Lyfs og
Sælar/ Hañ sie og lijka eirnen so Myskunsam
ur/ ad hañ vilie þad giarnan giöra / ef vier
treystum og truum hönum þar til/ Og hier
til leider Herrañ Jesus margar Bevijsingar/
med hvörium hann vill leida oss og lada til
þess ad hafa ecke Sorg og Ahyggiu / helldur
treysta Gude. Gud hañ hefur gefed oss Lyf
ed og Lijkamañ/ æn allrar Ahyggiu/ So mũ
hañ og lijka eirnen veita og gefa oss Klæde
og Fæde til Lykamans Vpphelldis. Jtem /
Gud fæder og nærer Fugla Loptsins/ sem hu
örke nidur sæ nie vpp skiera/ Huad myklu fræ
mar vill hañ fæda og næra oss sem erum myk
lu ædre Fuglunum. Jtem/ Þo vier vilium hæ
fa Vijl og Ahyggiu / þa kiemur þad til ein
skis/ og er j allan mæta forgiefins. Þar næst
vtleider hann oss á vyda Völlu/ og skipar ad
skoda Grös og Blomstur Akrañá / og giæta

ad hvør

ad huórſu þagutliga Gud hañ pryder og ſkryd er þau/ Huad myklu þramar mun hañ þa þor ſorga oſſ þyrer Klædnade / eþ oſſ breſtur ecke Truna til hans. Ad ſyduſtu vill hañ vier at hugum/ ad vier erum ecke Heidingiar ſem aþ Gude eckert vita/og eck eſtunda a añad eñ þat huad þeir ſkulu eta og drecka / og vita eckert aþ Guds Födurligre Fyrerhyggiu til þeirra/ Helldur þad/ Ad vier erum Meñ kriſtner/og Guds Börn/ þyrer huórium Gud hann heþur alla Sorg og Ahyggiu.

2 Þar næſt ſtendur hier eitt lioſlig Aviſſan huórnen þad Gud hñ vill veita oſſ vort Vpp helldi/ og med huórium hætte ad ſierhuór kriſten Madur hañ ſkule leita epter ſtundligum Gotzum edur Eigum/ Sem er med þeſſum hætte: Ad huór og einn hañ ſtunde ſyna Stett Kall og Embætte/ legge aþ alla Sorg og Ahyggiu/ treyſte vppa Guds Hinneſka Födurs Nad og Bleſſan/ huðr ed oſſ vill veita Fædu og Klæde og allt þad vier höþum þörþ til Lijþſins Vpphelldis / Enn þad vill Gud ad ſie vor hín meſta Aſtundan og Ahyggia / huórnen ad vier kuñum ad komaſt til Guds Rijkis. Þad er/ Til Guds Ords og þeſſ Riett lætis ſem Gude lijkar/ Þad er / huórnen vier þaum Guds Nad og Syndaña Fyrergieþning/ Nær vier höþum þad/ þa er eingen Neyd a Ferdum/ Þuiad vier höþum eiñ Födur a Him̄num/ hañ lætur oſſ ſijn Börn ecke lyda Neyd/

hann

han̄ veit huörs vier þurfum vid/ han̄ vill og eirnen veita oss og giefa so myked sem oss er Gagnligt/ Hans Nafn sie Blessad ad eilyfu.

H

Tueimur a einum tyma/ Tion las ust eingen þionar / Gude og aumum Aude/ Olyk eru þau Ryke/ Hugsiuk ur huad ma auka vid Hæd sier/ vyst er Fæde/ Leite þier Lyfs ad Brautum Lætur Gud allt hitt Bætast.

## Bænen̄.

DRotten Gud Himneskur Fader / Vier þöckum þier fyrer alla þyna Vel giörninga/ ad þu hefur giefed oss Lyf og Lykama/ og af þinne Nad + Myskun þad huörttueggia allt til þessa Dags verndad og vardueitt. Vier Bidium þig/ Tak ecke þyna Blessan fra oss/ helldur geym oss og vardueit fra Agirnd og illre Ahyggiu/ Vppa þad/ ad vier kyn̄um ad þiona þier alleina/ elska þig/og hallda oss fastliga ad þier/enn saurga oss ecke med illre Afgudadyrkan og Audæfan̄a Þionustu/ Helldur so/ ad vier setium alla vora Von Tru og Traust til þin̄ar Nadar + Myskunar/

skinar/ fyrer Jesum Christum þinn Son vorn Herra/ Amen.

## Sextanda S. d. epter Trinitatis Pistilliñ Ephe. III. Ca.

Kiærer Brædur. Eg bid ydur/ pad þier tregest ecke saker miñar Hörmungar sem eg þole fyrer ydur / huör ydar Dyrd er. Huar fyrer ad eg beyge miijn Knie fyrer Födur vors Drottins Jesu Christi/ sa sem riettur Fader er / yfer allt þad Fader kallast/ a Himnum og a Jördu/ ad hañ giefe ydur Krapt/ epter Riijkdome sinnar Dyrdar/ad styrkiast fyrer hans Anda j hinum jnnra Manne/ og læta Christum fyrer Truna byggia j ydrum Hiörtum. Og fyrer Kiærleiken jnn rætast o g grunduallast/ so ad þier mættud höndla med öllum Helgum/ huör þar sie Viidd Dypt Leingd og Hæd. Og ad vita eirnen Kiærleikañ Christs/ sem þo alla Vidurkieñing yfer geingur/so ad þier vpp fylltust mz alls hattradre Guds Gnægd. Eñ hönum sem

vm sem Mattugur er alla Hlute yfer-
gnæfanligar ad giöra / helldur enn vier
bidium eda skilium / epter þeim Krap-
te sem j oss verkar / þeim sama sie Dyrd
j Söfnudenum / sa j Christo Jesu er /
vm allar Allder Allda ad eilijfu Amen.

## Vtskyring Textans.

S Pall hefur j þeirre Grein / sem hier næst
standur fyrre j Capitulanum so kient / ad
fyrer Christum og Truna a hañ höfum vier
fullt Traust vm Guds Nad og Myskun vid
oss / so vier meigum fryliga ganga fram fyrer
Gud og bidia hañ og akalla sem vorn Blyd-
asta Födur / þui seiger hañ so / Þar fyrer /
Med þui vier erum fyrer Christum Erf-
ingiar Guds Rykis / og höfum frialsañ Gang
til Guds / þa latum önguar Harskasemder Ey-
mder nie Ofsokner fæla oss fra kristeligre Tru
Bid eg / þad þier tregest ecke vegna mi-
nna Hörmunga / Þered ecke lytil Hugader
edur skielfder j ydare Tru / vegna miña Of-
sokna huöriar eg lyd / fyrer ydur / Fyrer
þa Sök / ad eg hef prediltad ydur Heidingium
Guds Heilaga Euangelium. Þetta var helsta
Sök og Tilefne / huar fyrer Gydingar höfdu
ydu og ofsoktu S. Pal / ad hann kiende þad
Christur heyrde til Heidingium / so sem hionum

er af Postulaña Giörningum/ Hvør / Marg falldlig Offsokn segier S. Pall / Ad er yd ar Dyrd / Þier sem vorud Heidingiar eiged ecke ad sturlast þar af/helldur hrosa ydur/ad eg er reidu buen ad lyda hvörskyns ydar vegna helldur enn þad ad þier skylldud vte lykiast fra Guds Ryke. Lærdomur.

Hier af ma merkia/ ad opt veykiast Gud hræddra Mana hiörtu/þa þr sia ad Guds Ordz Þienarar lyda Offsokn og Motgang Gudz Evangelij vegna) Enn hvad hellst þeir lyda j slykum Efnum/ þad skiedur allt Gude til Dyrdar og kristeligre Kirkiu til Gagns/ Þess vegna (ad þier skulud vaxa og proast j Kyñingu Guds og sannre Gudhræslu) þa Beyge eg mijn Knye/bidiande af Hiarta fyrer ydur Lærdomur.

Þanneñ ber Ordsins Þienörum ad bidia fyrer Kristneñe / og hvar slyk alvarlig Bæn skiedur optsinnis/ þar læta sig og j liose sön Merke Lytelætesins / Fyrer Födur vors Drottins Jesu Christi.

Lærdomur.

So eigum og meigum vier bidia Födur/ inn / j Trauste Medalgangarans Christi) Sa sem riettur Fader er yfer allt þad Fader kallast a Himnum og a Jördu/ þad er/ Sa sem er eilyfur Fader vors Drottins Jesu Christi a Himnum/og þar med Fad er allra

ett allra rietttrüðdra Maña hier a Jördu Lærdomur.

Fyrst hañ er vor Fader/ þa meigum vier fullkomliga trua þad hañ mune af Fööurlig, re Hiartäs Girxsku heyra vorar Bæner) Enn þetta er myñ Bæn (seiger S. Pall) Ad hñ giefe ydur Krapt/ epter Rijkdome sijns ar Dyrdar/ ad styrkiast fyrer hans Anda (Helgan) j hinum jnnra Manne/ Þad er/ Þesse er myn Bæn fyrer ydur / ad sa allra Rijkaste Gud og Drotteñ/ fyrer siñ / Hei laga Anda styrke ydur med nyum Krapte ad þier eke ad eins þolenmodliga vmbered Of; sokner og Motgang/helldur og eirnen ad þier epter hinum jnnra Mañe mættud Dag fra deige aukast eflast og þroast j sañre Gudhræslu Lærdomur.

Sa allra rijkaste Gud og Drotteñ/ hann er reidubuen ad vtdeila Heilögum Anda yfer oss / ef vier bidium hañ þar vm/ Luc. 11. Og Heilagur Ande hañ styrker Hugskot Rier truadra/ nær þeir blijfa vid Guds Ord. Nu þott sa ytre Madur sa gamle Adam stande j mote Guds Logmale/ Þa verdum vier þo epter þeim jnnra Mañenum meir og meir samlyker Guds Mynd/ nær vier erum Endur fæddcr) Þess bid eg og eirnen/seiger S. Pall Ad Christur fyrer Truna bwe j ydrum Hiörtum/ og ad þier sieud Rootfester og Grundvallader j Kiærleikanum.

Christus hañ byr j Hiörtum Riettruadra so sem þar stendur/ Eg og Faderen̄ munum koma til hans og giöra Vistar veru hia hönum/ Joh. 15. Hañ stiornar og eirnen þeim Gudhræddu/ so þeir elska bæde Gud og Mañingan/ Hañ verndar og varduciter þa eirnen j Opsoknum og Motgange. So æ og Kiærleikurin̄/ ad vera Rootfestur og jnn groen j oss / ad hañ verde ecke audvelldliga sliten̄ fra oss / Hañ skal og vera/ vel og trausliga grundualladur/ so hañ kollkastest ecke / af Stormum Opsoknaña og aña ra Girnda.

So ad þier mættud (seiger S. Paall) höndla med öllum Helgum/ Huör ad sie Vijdd og Leingd / Dypt og Hæd/ Og ad vita Kiærleikan Christi / sem alla Visku yfer geingur/ so þier vpp fyllist med alls hættadre Guds Nægd/ Þad er so ad skilia/ Eg bid Gud/ ad þier jafnframt ödrum riett Kristnum Mönum mættud skilia og þeckia þañ stora Christi Kiærleik til ydar / huör ad er oseiganligur / og a alla vegu omælanligur/ Og þad bid eg / ad þier mættud riettelliga skilia/ ad sa Kiærleike med huörium vier elskum Christum aptur a mote/ hañ er myklu ædre/ enn ad vita leyndadoma Andligra Hluta/ So sem þeir lættast vita/ sem hafa Euangelium j Muñenum enn ecke j Hiartanu. Þuiad ef þier elskid Christum af

um aþ Aluðru og Hiarta/ þa mun Gud vpp-fylla ydur yferþliotanliga med synar Andlig-ar Gaþur. Lærdomur.

So sem Christi Kiærleike vid oss/ vt breid er sig a alla vegu/og y allar ætter og er omæl anligur ad Dypt og Hæd Leingd og Breidd/ So er til heyreligt ad vier elskum hañ aptur a mote; Og þeir sem haþa hreina Elsku a Christo / vid þa eykur Gud synar Andligar Gaþur/ meir og meir.

Hier næst setur S. Pall pram/ epter van da eina Þackargiórd til Guds / seigande. Enn hónum sem Mattugur er / alla Hlute yfergnæfanligar ad giora helld-ur enn vier Bidium edur skilium/ epter þeim Krapte sem j oss verkar/ þess-um sama sie Dyrd/ j Sófnudenum sa ad j Christo Jesu er/ vm allar Allder Allda Amen. Þad er so myked talad/ Sa eilyþe vollduge Gud huór ed mættugur er myk lu þleira ad veita og gieþa oss til Saluhialp-ar enn vier kunnum ad skynia edur þad ad bidia/ epter þeim Krapte synum/ sem hañ sia lþur j oss verkar/ huória hann heþur Endur þætt og gieted/hónum sie Loþ og Dyrd j Sóþ nudenum Christs vm Allder og ad eilyþu/ be de þessa Heims og annars/ Amen.

Lærdomur.

So eigum vier og eirnen oaþlatanliga Gude Packer ad giora/ þyrer hans oseiganliga

 Velgiór

Velgiörníngа/ einkum þa Andligu. Item/ J öllum vorum Hörmungum og Freistingum/ þa sie þad vor Huggun og vort Traust/ ad sa Himneske Faderenn kann meira ad veita oss enn vier kunnum ad vona og skynia/ og þar til heyr ur hann ecke alleinasta Matteñ/ helldur og so Vilian. Þad skal og styrkia oss j soddan Epne/ ad vier þiñum huörsu Gud hann verkar syn Verk medur oss. Þar þyrer sie Nafn Drottins Blessad j Kristneñe æpenliga / og annars Heims mun alldrei þriota hans Lofgiörd ad eilijfu)

## Euangelium Luce. VII. Cap.

I Þann tijma. Og þad skiede so/ epter þad ad Jesus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Naim/ og hans Læresueinar geingu marger mz hönum/ og mijkell fiölde annars Folks. Þa er hann tok ad nalægiast Borgar hli ded/ sia þu / þad Framliden Madur var boren wt/ einka Sonur siñar Modur / og hun var Eckia/ Mijkell Fiöllde Borgar maña gieck + vt med henne. Enn þa ed Drotteñ leit hana hrærdest hañ Myskunar yfer heñe og sagde til heñar. Grat þu eige. Og hañ gieck

þar ad

þar ad og ahrærde Börnnar / Enn
þeir sem baru stodu vid: Og hañ sagde. Þu Vngmeñe / eg seige þier / Rijs þu
vpp. Og sa setteſt vpp sem Framliden
var / og tok til ad mæla / Og hañ gaf
hañ aptur ſinne Modur. Enn aller vrdu Ottaſlegner / lofudu Gud og ſögdu.
Spamadur mijkell er a medal vor vppriſeñ / og Gud hefur vitiad ſijns Folks.
Og þeſſe Saga barſt vt vm allt Gydinga Land af hönum / og vm öll kringumliggiande Hieröd.

## Sum̃a z Jñehalld Gudſpiallſins

ÞEſſe daſamliga Jarteikn hun er ſkrifud öllum Kriſtnum Mönnum til Traustz og Hugguuar / So ad vier lærum hier vt af / j giegn Daudans ſkielfingu og Grimd / ad leita Huggunar j hia Jeſu Guds Syne / enn huörge annarſtadar / Þuiad þott öll veröldeñ hun være ſtödd hia einum Daudum mañe / kallande og hropande og hñ hriſtande / þa være þad allt forgiefins / Enn vor Herra Jeſus hañ talar ecke nema eitt Ord / ſeigande / Vngmeñe / Eg ſeige þier / rijs vpp / Þetta Ord er ſo kröptugt / ad ſa enn Daude hañ heyrer þad / og rijs ſtrax vpp epter þeirra Orda hliodan / og fær Lijf aptur. Hier ſlaum vier ad Jeſu Chriſti Ord

ſit Ord þad er ſit rietta og ſanna Lækning j mote Daudanum. Þar fyrer / ef þu villt faa Hialp j mote Daudanum / og komaſt til þeſſ rietta og ſanna Lijfs / þa hallt þier til Christum / heyr og lær hans Ord og varduceit þad Hañ er Herra yfer Daudāum / Dauden er ecke fyrer hönum nema Suefn. Med einu Orde kann hañ ad hialpa þier / og ad vekia þig vpp til eilijfs Lijfs.

Ð

Sart tok ſignad Hiarta / Sorgin Naims Borgar / Jeſus Elſku lyſer / Og Eckiu Graten hnecker / Hier kuedur hañ af Dauda / Hennar einka Son þennañ / Giefur med glödu Lijfe / God an aptur Modur.

## Bænen.

DRottenn Gud Himneſkur Fader / þu ſem lieſt þinn Son taka a ſig Mañliga Natturu / ad hañ fyrſt ſkyllde bitala og borga fyrer Syndernar vorar / þar næſt ſijdan hialpa oſſ fra þeim eilijfa Dauda / Ver bidium þig / Læt þu oſſ fullkomliga þar vppa trua og treyſta / ad lijka ſo ſem Herran Jeſus hañ vpp reiſte af Dauda Eckiuñar Son ecke vtan med einu Orde / ad hañ mune j ſama

i sama Mata upp vekia oss a Deiße Domsins / og giöra oss eilijfliga Salu holpna / Amen.

## Seytianda S. d. epter Trinitatis Pistilleñ Ephe. IIII. Cap.

Kiærer Brædur · So aminne eg ydur nu / Bandinge j Drottne / ad þier ganged so sem verdugt er ydvare Kallan / þar þier erud jnne kallader / med öllu Lijtelæte / og Hogvære / og mz Þolenmæde / Og vmlijdid huor añan j Kiærleika. Vered kostgiæfner ad hallda Eindrægne j Andanum / fyrer Band Fridarins. Eirn Lijkame / og eiñ Ande / so sem þier erud kallader vppa eina Von / ydarar Kallanar. Eirn Drottiñ / ein Trua / ein Skijrn / einn Gud og Fader allra / sa sem ad er yfer ydur aullum / og fyrer ydur öllum / og j ydur aullum· Huör ad er Blessadur vm allar Allder / Amen.

Vtskyring Textans.

S. Paall aminner þa til Epheso j þessum Pistle/ ad þeir skule lifa so sem riett Kristnum somer og hæfer/ Og j fyrstu vill hann þeir hafe eitt Kristeligt Samþycke þeirra a mille / bæde j Andligum Hlutum og so Verialldligum. So aminne eg nu ydur/ Eg Bandinge j Drottne/ Eg sem er nu j Fiötrunum og Fangelse/ vegna Drottins Jesu Christi/ Ad þier ganged sem verdugt er ydare Kallan / med huörre þier erud kallader. Pad er/ Gud Drotten hann hefur virdst ad kalla ydr fyrer Euangelium/ fra Myrkrenu til Liosins / fra Daudanum til Lijfsins/ fra Syndonum og Glæponum til Gudligs Lyfernis/ Par fyrer leggid þar allt Kapp a/ ad ydart Lijf og Framferde / samhliode soddan Kallan. Lærdom.

Merk vel / ad hier talar S. Paall vm almenneliga Kallan allra Kristinna Manna/ vm hana hæfer oss jafnan ad huxa/ sa ad vier saurgum hana ecke/ med Löstum og liotum Lifnade. Fiötrar S. Pals kienna oss þad / ad huad vier lijdum fyrer Christi saker/ enn ecke vegna vorra Synda / þad er oss ei til neins Vanheidurs / helldur til Hrosunar. Enn ef þu spyr/ Huörnen skulum vier ganga? So/ Med öllu Lijtelæte / Ecke alleinasta fyrer Gude/ helldur og einnen fyrer Maunnganum. Hallde huör annann sier ædra/ j öllum Hlutum. Og giöre þad sama/ Med Hogvære/ Verum ecke

sim ecke vid Mäñgañ Styggliet Stollter/ og Storlæter / helldur Kiußer og Godsamer/ Og med Polenmæde/ Og med langlund-ar Giede/ verdum ei ẞliotet til Reide/ Helldur Ymlijde huör annann j Kiærleika / Taße huör vid annañ vmburdar Kynde / og hallde til goda / þad a verdur / enn lagßære þo og leidriette þ aßatt er og lagßært verdr/ Og vered Kostgiæfner/ ad hallda Ein drægne j Andanum/ Ad eingen ßae Harur til añars/ Fyrer Band Fridarins. Þetta er so mikid sagt/ Giaed vel til/ ad Andskoten sem er Root og Ypphaß alls Osampyckis/ ko me ydur ecke til/ad haßa Ovinættu og Fiand skap ydar a mille/ Þuiad þad er hans Astun dan / vpp ad vekia Rijß og Þrætur / allra Mañ a mille/ Eñ þeir sem haßa Astundan a Fridnum/ þeim verdur til jlls ecke komed/ Hiner sem ecke astunda Friden/ þeir ala sijn a mille Strijd og styriölld Rijß og Þrættaner. Enn slijkt hæßer ecke Kristnum Mönnum. Hell dur(goder Brædur)vered/ Eitt Lijkame/ Andligur/ og eitt Ande/ Haßed so sem eitt Anda/ eina Sæl/ So sem þar stendur skrißad/ vm þa Kristnu/ til Jerusalem/ Eñ Mañmergd þre ed trude var eitt Hiarta/ og eitt Ande/ Acto. 4. Cap. Þuiad eß vier er um eitt Andligur Lijkame/ þa er tilheyreligt ad vier höpum og eitt eitt Anda. Þar ßyrer/ Þeir sem koma aß stad Rijße og Osampyck tiu/ þeir

ku/þeir meiga vænta ſier Guds Straþþs. Enn þeir eru Oſamþyckis Eþne/ ſem ſpilla riett-um Lærdome/ og þeir er ſaklauſum Mönnum giöra jllt ann til verknadar. Vered (ſeiger S. Paall) ſamhugader/ So ſem þier erud kall ader j einne Von ydrar Kallanar. Þad er/ Aller eru þier kallader til eirnrar og hinn-ar ſömu eilyþrar Saluhialpar / epter huörre þier byded j Voninne/ og huar þyrer vilie þier þa gieþa Oſamþycke Rwm ydar a mille?

Lærdomur.

Ovidurkuæmeligt er þad/ad þeir ſie oſam þycker ſyn a mille hier a Jördu/ſem ſeirna me ir eiga ad liþa j Himerijke ad eilyþu) Huxed vm þad/ ſeiger S. Paall/ þier haþed Einn Drottenn/ Jeſum Chriſtum / huör ed þar til heþur ydur Endurleyſt/ ſo ad þier þionud ud hönum Samhugader/ kuiad ecke hæþer ad eins Herra Jeſu Chriſti Þionar ſieu Oſam-þycker ſyn a mille. Huxed og vm ad þar er Ein Trua/ Þier haþed aller eina og hina ſömu Tru og hinn ſama Kriſtindoms Lær-dom j huörium vier Saluholpner verdum/ Ein Skijrn Er allra ydar/ med huörre þier ſkyrder erud j Naþne Födur og Sonar og Hei lags Anda. Einn er Gud og Fader allra þe-irra ſem trua a Chriſtum. Þar þyrer hæþer/ad þeir ſem einn Gud dyrka og hins ſama Him neſka Födurs Syner eru / ſie ſamþycker ſyn a mille. Lærdomur.

Þar

Þat Gud hañ nefnest vór Fader/ þa höfr vm vier þa Huggun / ad hañ hefur vissliga Födurligt Hiarta til vor/og hañ vill hialpa oss/ enn af þui hañ er Gud/þa er hönum allt möguligt Huör Gud og Fader ad er/ yfer öll um/ Mönum Kristnum/ so ad hañ vake yfer þeim vernde þa og varduelite/ og hañ verk ar allt/ Fyrer alla/ Þuiad vora Lykame og Limu hefur hñ sier til Þionustu/og Rietti lætenu/ sem þar stendur/ Rom. 6. Og hañ er sa sem byr og bygger j öllum ydur Og ydur styrer og stiornar med synum Heilaga Anda. Lærdomur.

Þetta er stor Fögnudur og Glede/ ad vier vitum þad Gud hañ er med oss/ og hañ styrer og rædur oss og öllum vorum Verkum/hönum sie Lof og Dyrd ad eilijfu.

## Euangelium Luce. XIIII. C.

Þann tijma. Og þad skiede so/ ad Jesus gieck jnn j Hws nöckurs Phariseis Höfdingia a Þuott deige Brauds ad neyta/ og þeir höfdu Vardhallds a hönum. Og sia þu/ ad Madur nöckur Vatz siukur var þar frame fyrer hönum/ Og Jesus andsuarade/ og sagde til

be til Lǫgſpekinganā / og Phariſeis/ ſo ſeigande. Huǫrt leyfeſt nǫckud ad lꝛ⸗kna a Þuott dǫgum? Eñ þeir þǫgdu·
Og hañ tok þa a hinum Siuka/ Lꝛk⸗nade hañ/ og liet hañ j burt fara/ ſua rade og ſagde til þeirra· Huǫrs ydar Aſne eda Naut ſiñ fellur j Pytt/er þat eige jaſnſnart vt dreiged a Þuottdeige? Og þeir gꝛtu hǫnum ǫnguǫ ſuar til þar arad. Enn hañ ſagde þeſſa Epterlijk⸗ing til þeirra ſem bodner voru/ þa ed hañ ſꝛ/ huǫrnen þeir mǫttuſt epter hi⸗num fremſtum Sꝛtum/ ſeigande ſo til þeirra. Nꝛr ed þu verdur bodeñ af einhuǫrium til Brudkaups/ þa ſet þig ecke j hid ꝛdſta Sꝛte/ kann ſkie/ þad annar þier Heidarligre enn þu ſie bodeñ af hǫnum / og kome ſa ſem þier ba⸗ud og hǫnum/ ſeige til þijn/Gief þeſſ⸗um Rwm/ɛ hlioter þu þa mȝ Kiñroda ad hafa hid yǫſta Sꝛte. Helldur ſo/ Nꝛr ad þu verdur bodeñ/þa far þu/ɛ ſet þig j hinn yſta Seſſ/ ſo ad þa nꝛr ed ſa kiemur er þier baud/ hañ ſeige til þijn. Vinur/ þoka þier vpp betur. Þa mun þier Virding veitaſt hia þijnum Seſſunautum. Þuiad huǫr ſig ſialfur

vpp hef⸗

vpp hefur / hañ mun nidur lækaſt / og huór ſig Lijtelæter / hañ ſkal vpp hafenn verda.

## Suma z Iñehalld Gudſpiallſins.

1 I fyrſtu verdur kient j þeſſu Gudſpialle huad þad er ad Helga Hwijldar dageñ Drottins / og huórneñ vier ſkulum hañ helga. Þad er ecke ad hallda Heilagt / ad vera Idiu laus / haþaſt eckert ad / Helldur ſo / ad heyra Guds Ord / læra þad og leſa / ódrum ad kienna og vnderuijſa j Guds Orde / koma med ódrum til ſamans þar ſem giórdar eru almeñeligar Bæner og Guds Þionuſtugiórd er framen / gióra gott þeim Fatæku / vitia Siukra / hugga Sorgfulla / Snógt ad ſeigia / Ad gióra Naungan um til goda med Ræd og Dæd / Med ſoddan Verkum briotum vier ecke Hwijldar dagen / hell dur hölldum vier hann þa Heilagann ſo ſem Gud hefur ſkipad.

2 Hier er og Amiñing til Kriſteligs Lijtelætis / ad eingen hañ metne ſig nie ſtære fram yfer aññañ / Phil. 2. Hafe huór añañ ſier j Virdingum ædra / Og hier vppa fram ſetur Chriſtur eitt Epterdæme / og lykur ſinne Ræ du med þeirre miñeligre Malsgrein / Ad Gud hañ vilie læcka Dramb og Metnad þeirra Hofmodugu / enn Lijtelæta vilie hañ vidreiſa og vpp rietta.

Drottī

Drottin̄ Drambs meñ friette / Dæme þier huørt þad sæmer. / Suida og Gotter græda / Sijdur a Helgum tijdum / Enn Grip ef j Dijkid diupa / Dett ur vpp ad rietta? Hræsnarar hier vid vesna / Hañ læknar þo Mañeñ.

Bæneñ.

DRotteñ Gud vor Himneskur Fader / Vier bidium þig / veit og gief oss þinn Hellaga Anda / læt hañ styra oss og stiorna / ✝ hallda oss j þijnum Otta / og ad vier sieum ecke drambsamer / Helldur so / ad vier af øllu Hiarta heyrum og lærum og medtökum þitt Ord / og helgum Huildar dageñ rietteliga / So ad vier eirnen fyrer þitt Heilaga Ord mættum Heilager verda / Fyrst j þann mata / ad vier alleina setium Tru og Traust a þiñ Son Jesum Christum ad hañ sie alleinasta vort Riettlæte vor Endurlausnare / Þar næst / ad vier betrum og bætum vort Lijf og Framferde epter Hliodan þijns Ords / og fordunst allar Hneyxlaner / jnn til þess vier fyrer þijna Nad ✝ Miyskun verdum eilijfliga Saluholpner / Amen.

## Atianda S. d. epter Trinitatis Pistillinn I. Cor. I. Cap.



Kjærer Brædur. Þacker giøre eg Gude mijnum jafnan ydar vegna/ fyrer þa Guds Nad sem ydur er giefeñ j Christo Jesu. Pad ad þier erud j øllum Hlutum audgader/ j allre Runnattu/ og allre Vidurkieñingu/ epter þui sem vottan af Christo Jesu/ er kroptug orden j ydur. So ad þier hafed ønguan Brest j nøckre Giøf / epter bijdande Auglysingu vors Drottins Jesu Christi huør ad ydur mun stadfesta allt til Afe loka/ so ad þier sieud ostraffanliger a Deige Drottins vors Jesu Christi. Þui ad Gud er Trwr/ fyrer huørn ad þier kallader erud til Samlags Sonar hiñs Jesu Christi/ vors Drottins.

### Vtskyring Textans.

Þetta er vpphaf pistilsins hins Heilaga Pals til Corintheos/ j huøriu hañ gledst og sampagnar þeim / ad þeir eru komner til Kristeligrar Truar/og kuedst hafa/goda Von

 vm þeir

vm þeirra Gudrækne og Sæluhialp. Eg (seiger hann) þacka Gude mijnum. So eigum vier ad trua a Gud/ad vier hölldum hn̄ ad vera/ VORN. Þad er/ Ad hañ sie oss Myskunsamur og Nadugur/ Jafnañ fyrer ydur. Lærdomur.

Þanneñ eigum vier Gud Packer ad giörä ecke alleinasta þyrer þad sem hañ veiter oss sialþum/ helldur og eirnen Naunganum) Eg seiger S. Pall prijsa Gud/ Vegna þeirrar Nadar sem ydur er giefeñ j Christo Jesu. Fyrer huörn þier erud aþ Gude til Nadar medtekner / aþ huörre Nad þad er og skied/ Ad þier erud j ollum Andligum Gæfum auduger ordner j honum/ Aþ hans Giæsku og Myskun haþe þier þar Haleitöstu Guds Nadar Gaþur/so sem ad er J ollu Orde og j allre Visku/ Þad er/ Gud hañ heþur gieþid ydur nogligä Visku og Kuñattu Andligra Hluta / sem ydur eru til Sæluhialpar Naudsynliger/ so ad þier haþit nu þa Himnesku Speke/ j huörre þier nu kuñ ed ödrum ad vnderuijsa / þeim til Sæluhialpar/ Epter þui sem sa Vitnisburdur Christi er stadfastur ordenn j ydur: Þad er/ Gud hañ heþur stadþest med ydur þañ Lærdom vt aþ Jesu Christo.

Lærdomur.

Riett kristnum Mañe ber / ecke ad eins

haþa

hafa nöckud lært j Gudligre Ritningu/ helldur a hañ ad vera stadfastur þar vti og grooñ/ so hañ skeike ecke a Offsoknar og Freistingar Tijmanum) Og so (seiger postulinn) hefur Gud Himneskur Fader audgad ydur/ ad þier hafed ecke Brest j nöckre Giöf.

Lærdomur.

Enn þo ad Guds Kristne hafe þeiged stundum fleire stundum færre Gafur hins Helga Anda/ þa hefur hun þo jafnan so margar og myklar/ sem hun þarf vid til Saluhialpar) Epter bijdande Auglysingu Drottins vors Jesu Christi. Meiningeñ er þesse/ So mykla Ryñing hafe þier feinged a Gude / ad þier med Fögnude og Forleingingu storre bijdid epter Christi Tilkomu / huör ed nu er osyneliga hia sinne Kristne/enn a himnum ysta Deige mun hañ syneliga aptur koma.

Lærdomur.

Huör hañ er Gudhræddur hañ er reidubuiñ til Herrans Christi Tilkomu/ hañ bijdur heñar med godre Samuisku/ so sem þær Vijsu Meyaññar) Matth. 25. Sa ed ydur mun stadfesta / Hallda ydur og vidstyrkia j riettre Tru/ Allt til Enda/ Til ydar æfeloka/ So ad þier finnest ostraffanliger j Tilkomu Drottins vors Jesu Christi.

Lærdomur.

J þañ mata verdum vier ostraffanleger þegar vorar Synder fyrergiefast/ og eru hul

 dar med

þar med Sakleyse Christi/ enn þad sem epter er Syndsamligt j voru Hollde/ þad aþ mæest og burtu hreinsast med ollu þyrer Daudañ/ þar þyrer kann eingeñ ad aþsaka sig a hinum sijdasta Deige/ Rom. 8. Þuiad/ Gud er Trwr Hañ hellldur sijn Ord og Fyrerheit/ Fyrer hu ð̃rn þier erud kallad/ Med Gudspiallsins Predikun/ Til Samlags Jesu hŭs Son ar Christi vors Drottins. So ad þier sie ud Samarþar med hönum til þess Himneska Rijkis og þeirra eilijfu Audæfa/ Rom. 8.

Lærdomur.

Huör hañ er Ebþasamur vm Nad og Myskun Guds/ sa giörer Gude stora Vanæru og væner hañ Osañinda/ so sem ad villde hañ ecke vinna oss Himerijkis ellegar hallda sijn Ord og Fyrerheit.

## Euangelium Math. XXII. C.

Þann tijma. Þa Phariseatener heyrdu þad/ ad hañ hafde nidur þaggad þa Saduceos/ saman söfnuduſt þeir j eitt. Og eirn Lögvitringur af þeim spurde hañ ad freistande hans. Meistare/ huört er hid hæsta Bodord j Lögmalenu? Enn Jesus sagde til hans. Þad/

Þad / Ad þu skallt elska Drotten Gud þiñ af öllu Hiarta þÿnu / af allre Aund þinne / og af öllu Hugskote þÿnu / þet ta er hid fyrsta og ædsta Bodord. Enn hitt annad er þessu lÿkt. Þad / ad elska skalltu Naunga þiñ so sem sialfan þig. J þessum tueimur Bodordum er jnn bunded allt Lögmal / og Spameñerner. Enn þa ed Pharisearner voru so til samans komner / spurde Jesus þa ad og sagde. Huad virdist ydur vm Christ / huörs Son hañ er? Þeir sögdu hönum. Dauids. Hañ sagde þa til þeirra. Huörneñ kallar Dauid hañ þa j Anda eirn Herra? Þar hañ seiger. Drotteñ sagde mÿnum Drottne. Sittu mier til Hægre Handar / þangad til ad eg set Ovine þÿna / til Skarar Foota þiña. Enn fyrst Dauid kallar hañ Herra / huörnen er hañ þa hans Sonur? Og eingeñ gat suarad hönum einu Orde. Og eige dirfdest nockur vpp fra þeim Deige / hañ framar ad spyria.

## Sumã z Jñehalld Gudspiallsins.

Her j þessu Gudspialle standa tuær Spurningar / Su fyrre hlyder vppa Lögmalit.

 ed / Su

